# Nordiske Oldskrifter

udgivne

af

**det nordiske Literatur-Samfund.**

---

## XV.

## Fóstbræðra Saga

ved *Konrad Gislason.*

---

Förste Hefte.

---

**KJØBENHAVN.**

Trykt i Brødrene Berlings Bogtrykkeri.

1852.

## DET NORDISKE LITERATUR-SAMFUND.

---

*Det nordiske Literatur-Samfund* har til Formaal at udbrede Kundskab til Nordens ældre Literatur, navnlig ved at udgive nordiske Oldskrifter paa en med Almenhedens Tarv overenstemmende Maade, og ved at udbrede disse i saa vid en Kreds som muligt. Samfundet vil derfor nærmest foranstalte Haandudgaver af de vigtigste islandske og andre oldnordiske Skrifter med en vel bearbejdet Text, og vil ved Siden heraf ogsaa søge at fremkalde lignende Udgaver af de senere Sprogmindesmærker, navnlig af Levningerne fra vor egen Middelalder. Men da Kundskaben til Nordens Oldsprog er saa lidet udbredt, vil Samfundet, i det mindste indtil Tilvejebringelsen af andre fornødne Hjælpemidler gjör det overflødigt, ledsage hine Textudgaver med Oversættelser eller saadanne Oplysninger, som ere nødvendige til fuldstændig at forstaae det udgivne. De af Samfundet besørgede Skrifter skulle indrettes saaledes, at Texterne og Oversættelserne eller Oplysningerne kunne samles i særskilte Bind. Samfundets Love ere:

§ 1. Samfundet har til Formaal, at fremme Kundskab til Nordens ældre Literatur, nærmest ved at udgive og udbrede nordiske Oldskrifter og de til disses Benyttelse fornødne Hjælpemidler.

§ 2. Aarlig afholdes i Kjøbenhavn et Møde, hvorpaa samtlige Medlemmer have Stemmeret.

§ 3. Til at bestyre Samfundets Anliggender vælges paa det aarlige Møde et Raad af 5 Medlemmer. Af disse afgaae efter det förste Aar tre, næste Aar to, og saa fremdeles.

(Midlertidigt Titelblad.)

# FÓSTBRÆÐRA SAGA,

udgivet

for det nordiske Literatur-Samfund

af

Konrad Gislason.

Förste Hefte.

KJÖBENHAVN.

TRYKT I DET BERLINGSKE BOGTRYKKERI.

1852.

# Midlertidigt Forord.

---

*Fostbrödre-Saga haves i flere, deels fuldstændige, deels ufuldstændige Bearbeidelser (jf. Grönlands historiske Mindesmærker II 265—70), hvoraf tre ere opbevarede i gamle Membraner og fortjene desaarsag, fremfor de övrige, at udgives i deres Heelhed.*

*Nærværende Hefte indeholder tvende saadanne ufuldstændige Bearbeidelser, der dog supplere hinanden, neml.*

*I) den, der findes i Skindbogen AM. 132 Fol., samt i Papirsafskriften deraf AM. 566 B i Qvart, hvilken Afskrift er taget medens Skindbogen endnu var noget fuldstændigere end den nu er (anf. St. Side 526). Skindbogen er naturligviis benyttet saa langt den naar (neml. Begyndelsen til Slutningen af Ordene* at minni stormr standi af Þormóði, *Side* 6, *Lin.* $^{28}$; *samt fra Begyndelsen af Ordene* klæðum; því at þeir áttu sökótt, $15^{29}$, *til Slutningen af Ordene* færðir góðar; lagði ok, $30^{24}$), *og dertil föiet Resten af det af denne Bearbeidelse Opbevarede* ($6^{28}$—$15^{28}$, $30^{24}$—$63^{6}$) *efter Afskriften.*

*II*) *den, der staaer i den saakaldte* Hauksbók (*AM.* *544 i Qvart. Jf. anf. St. S. 255, 265—66, hvor dog, paa det förste Sted, denne Bearbeidelses höie Ælde uden Tvivl fremhæves for stærkt), og som udgjör Slutningen af Heftet* (*fra* 63[8]).

*Resten af denne Udgave skal indeholde: Sagaen efter* Flateyjarbók; *Anmærkninger; Forklaring over Qvadene, ved afdöde Dr. Svb. Egilsson; en dansk Oversættelse, ved Hr. Registrator S. Thorlacius; samt Titelblad og Forerindring til det Hele.*



# I.

1. Á dögum hins helga Ólafs konungs voro margir höfðingjar under hans konungdæmi, ekki at eins í Noregi, heldr í öllum löndum, þeim er hans konungdómr stóð yfir; ok voro þeir aller mest virðir af guði, er konungi líkaði bezt við. Í þann tíma var höfðingi ágætr á Íslandi, í Ísafirði, er Vermundr hèt; hann var Þorgríms son, bróðir víga-Styrs. Vermundr hafði bústað í Vazfirði. Hann var vitr ok vinsæll. Hann átti konu þá er Þorbjörg hèt — hón var köllut Þorbjörg digra — dóttir Ólafs pá. Hón var vitr kona, ok stórlynd. Jafnan er Vermundr var ekki heima, þá rjeð hón firir hèraði ok firir mönnum; ok þótti hverjum manni sínu máli vel komit, er hón rjeð firir. Þat barst at einhverju sinni, þá er Vermundr var ekki heima, at Grettir Ásmundar son kom í Ísafjörð, þá er hann var sekr; ok þar sem hann kom, hafði hann þat nærr af hverjum, er hann kallaði til; ok þó at hann kallaði þat gefit, eða þeir er laust ljetu fèit, þá voro þær gjafir þannveg, at margir menn mundu sitt fje ekki laust láta firir honum, ef þeim sýndiz ekki tröll firir dyrum. Því söfnuðu bændr sèr liði, ok tóku Gretti höndum, ok dæmdu hann til dráps, ok reistu honum gálga, ok ætluðu at heingja hann. Ok er Þorbjörg veit þessa firirætlan, fór hón með húskarla sína til þess

mannfundar, er Grettir var dæmdr; ok þar kom hón at, sem gálginn var reistr, ok snaran þar við fest, ok Grettir þegar til leiddr; ok stóð þat eitt firir lífláti hans, er menn sá för Þorbjargar; ok er hón kom til mannfundar þess, þá spyrr hón, hvat menn ætluðuz þar firir. Þeir sögðu sína firirætlan. Hón segir: „Óráðligt sýniz mèr þat, at þèr drepit hann; því at hann er ættstórr maðr ok mikils verðr firir afls sakir ok margrar atgervi, þó at hann sje ekki gæfumaðr í öllum hlutum, ok mun frændum hans þikja skaði um hann, þótt hann sje við marga menn ódæll." Þeir segja: „Ólífissmaðr sýniz oss hann vera; því at hann er skógarmaðr ok sannr ránsmaðr." Þorbjörg mælti: „Ekki mun hann nú at sinni af lífi tekinn, ef ek má ráða." Þeir segja: „Hafa muntu ríki til þess, at hann sè ekki af lífi tekinn, hvárt sem þat er rjett eða rangt." Þá ljet Þorbjörg leysa Gretti, ok gaf honum líf, ok bað hann fara þangat sem hann vildi. Af þessum atburð kvað Grettir kviðling þenna:

Munda ek sjálfr
í snöru egnda
hölzti brátt
höfði stinga,
ef Þorbjörg
þessu skaldi
(hón er allsnotr)
ekki byrgi.

Í þessum atburði má hèr sýnaz, hversu mikill skörungr hón var.

2. Hávarr hèt maðr; hann var Klepps son; hann bjó á bæ þeim, er heitir at Jöklakeldu. Hávarr var kynjaðr sunnan af Áltanesi, ok hafði farit þaðan firir víga sakir; því at hann var mikill vígamaðr ok hávaðamaðr ok ódæll.

Hann átti konu þá er Þórelfr hèt; hón var breiðfirzk at kyni; hón var dóttir Álfs ór Dölum, göfugs manns ok ágæts. Hávarr ok Þórelfr áttu son þann er Þorgeirr hèt; hann var bráðgjörr maðr ok mikill vexti ok sterkr ok kappsfullr; hann nam á unga aldri at hlífa sèr með skildi ok vega með vápnum. Bessi hèt maðr, er bjó í Ísafirði; hann bjó á bæ þeim, er á Dyrðilmýri heitir; hann átti þá konu, er Þorgerðr hèt. Son þeira hèt Þormóðr; hann var þegar á unga aldri hvatr maðr ok hugprúðr, meðalmaðr vexti, svartr á hárslit ok hrokkinhærðr. Í þenna tíma bjó á Reykjahólum á Reykjanesi Þorgils Ara son; hann var mikill höfðingi, vitr ok vinsæll, ríkr ok ráðvandr. Illugi hèt bróðer hans, hirðmaðr ens heilaga Ólafs konungs; hann var farmaðr mikill, ok var jafnan annan vetr með Ólafi konungi, en annan á Reykjahólum; hann hafði út kirkjuvið ok skálavið. Þeir bræðr, Þorgils ok Illugi, voro synir Ara Ólafs sonar, Úlfs sonar ens skjálga, er nam Reykjanes, Högna sonar ens hvíta, Ótryggs sonar, Óblauðs sonar, Hjörleifs sonar konungs. Þorgerðr hèt móðer þeira Þorgils ok Illuga; hón var dóttir Álfs ór Dölum; móðer Álfs var Hildr, Þorsteins dóttir ens rauða, Óleifs sonar ens hvíta, Ingjalds sonar, Fróða sonar; móðer hans var Þóra, dóttir Sigurðar orms í auga; móðer Sigurðar var Áslaug, dóttir Sigurðar fáfnisbana. Þorgeirr Hávars son var systrungr Þorgils Ara sonar. Þorgeirr ok Þórmóðr óxu upp í Ísafirði, ok var snemmendiss vingan með þeim, því at þeir voro í mörgu skapglíkir. Snemmendiss sagði þeim svá hugr um, sem síðarr bar raun á, at þeir mundu vápnbitnir verða; því at þeir voro ráðnir til, at láta sinn hlut hvergi eða under leggja, við hverja menn sem þeir ætti málum at skipta; meirr hugðu þeir jafnan at fremd þessa heims lífs, en at dýrð annars heims fagnaðar. Því tóku þeir þat ráð með

fastmælum, at sá þeira skyldi hefna annars, er lengr lifði. En þó at þá veri menn kristnir kallaðer, þá var þó í þann tíð ung kristni ok mjög vanger, svá at margir gneistar heiðninnar voro þó þá eptir. Hafði sú siðvenja verit höfð fregra manna, þeira er þat lögmál settu sín í milli, at sá skyldi annars hefna, er lengr lifði: þá skildu þeir ganga under 3 jarðarmen, ok var þat eiðr þeira. Sá leikr var á þá lund: at rísta skyldi 3 torfur ór jörðu, langar; þeira endar skyldu aller fastir í jörðu, ok heimta upp lykkjurnar svá at menn mætti ganga under. Þann leik frömdu þeir Þormóðr ok Þorgeirr í sínum fastmælum. Þormóðr var nokkuru ellri, en þó var Þorgeirr sterkari. Uppgangr þeira gerðiz brátt mikill. Fara þeir víða um hèrut, ok voru ekki vinsælir; töldu margir þá ekki vera jafnaðarmenn. Höfðu þeir hald ok traust hjá feðrum sínum, sem ván var at; virðu margir menn, sem þeir hèldi þá til rangs. En þeir menn, sem vanhluta þóttuz verða firir þeim fóstbræðrum, fóro á fund Vermundar, ok báðu hann koma af sèr þessum vandræðum. Vermundr bauð Hávari ok Bersa á sinn fund, ok sagði þeim, at mönnum líkaði lítt til sona þeira — „Ertu, Háfarr, utanhèraðsmaðr" segir hann „ok hefir setz hèr niðr at engiss manns leyfi; höfum vèr ekki amaz við byggð þína hèr til; en nú sýniz mèr standa af Þorgeiri syni þínum órói ok stormr; viljum vèr nú, at þú færir bústað þinn ok byggð brott ór Ísafirði. En Bersa ok son hans munu vèr af því ekki á brott reka, at þeir ero hèr kynjaðer; vjæntum vèr ok, at minni stormr standi af Þormóði, ef þeir Þorgeirr skiljaz". Háfarr svarar: „Ráða muntu því, Vermundr, at vèr munum ráðaz í brott ór Ísafirði með fje várt; en ekki veit ek, nema Þorgeirr vili ráða vistum sínum". Nú eptir þessa þeira ráðagerð ferði Hávarr bústað sinn suðr til Borgarfjarðar, ok byggði þar sem nú heita Hávarstopter. Þorgeirr

var þá ýmist með feðr sínum eða vestr í Ísafirði með Þormóði; ok var hann mörgum mönnum nokkurr andvaragestr, þar sem hann kom, þó at hann veri á ungum aldri. Löngum var hann á Reykjahólum með Þorgilsi frenda sínum, ok hafði af honum gott yfirlæti. Mikit vinfengi var með þeim Ara Þorgils syni þegar á unga aldri, ok hjelz þeira vinfeingi meðan þeir lifðu báðer. Jöðurr hèt maðr, er bjó á bæ þeim, er heitir á Skeljabrekku. Hann var garpr mikill ok höfðingi, údæll ok lítill jafnaðarmaðr við marga menn, ríkr í hèraðinu ok stórráðr, vígamaðr mikill, ok bætti menn sjaldan fè, þótt hann vægi. Þat bar at einn vetr, at Jöðurr ok húskarlar hans fóru út á Akranes at mjölkaupum. Í þeiri för kom hann til Hávars, ok bað, at hann mundi ljá honum hest út á nes. Hann lèði honum hestinn — „Ok vil ek, at þú látir hestinn hèr epter, er þu ferr aptr, ok hafir þú ekki leingra". Jöðurr kvað svá vera skyldu. Síðan fór hann út á nes, ok keypti mjöl, sem hann ætlaði, ok fór heimleiðiss, þá er hann hafði þat annaz, at honum bar nauðsyn til; ok þá er hann fór utan með Grunnafirði, um bæ Hávars, þá ræddu förunautar hans um við hann, at þeir mundu koma þar til hús ok láta þar eptir hestinn. Jöðurr svarar: „Ekki nenni ek at dveljaz at því; mun ek nú hafa hestinn heim under klyfjum, ok senda honum þegar aptr, er ek hefi haft í mína nauðsyn". Þeir segja: „Gera máttu þat, ef þú vill; en ekki hefir Hávari jafnan líkat, ef af því veri brugðit, er hann vildi vera láta". „Ekki mun nú firer þat gert" segir Jöðurr. Háfarr sèr ferð þeira, ok kennir mennina; ferr til fundar við þá ok heilsar þeim ok mælti: „Nú munu þèr láta hèr epter hestinn". Jöðurr svarar: „Þú munt vilja lána mèr hestinn heim til Skeljabrekku?" Hávarr segir: „Ekki vil ek, at nú fari hestrinn lengra". Jöðurr svarar: „Þó munu vær hafa hestinn, þóttú

vilir ekki ljá". Hávarr segir: „Svá má vera, at þat sje". Hann hleypr at hestinum ok hjó ofan klyfjarnar ok tók tauma hestsins ok snèri heim á leið. Jöðurr hafði króka-spjót í hendi. Hann snarar þá at Hávari ok leggr spjóti í gegnum hann. Af því sári ljet Hávarr líf sitt. Jöðurr tók hestinn ok hafði með sèr ok fór leið sína til þess er hann kom heim. Heimamönnum Hávars þótti honum seint heim verða. Þeir leituðu hans ok fundu hann dauðan þar sem hann hafði veginn verit. Þeim þótti þau tíðendi mikil vera. Í þann tíma var Þorgeirr vestr í Ísafirði. Víg Hávars spurðiz skjótt víða um hèruð. Ok er Þorgeirr spurði víg föður síns, þá brá honum ekki við þá tíðenda-sögn: eigi roðnaði hann; því at ekki rann honum reiði í hörund: ekki bliknaði hann; því at honum rann ekki í bein reiði: heldr brá hann sèr engan veg við tíðenda-sögnina; því at ekki var hjarta hans sem fóarn í fugli — ekki var þat blóðfullt, svá at þat skylfi af hræzlu — heldr var þat herðt af enum hæsta höfuðsmið í öllum hvatleik.

3. Svá er sagt, at Þorgeirr veri lítill kvennamaðr; sagði hann þat vera svívirðing síns krapts at hokra at konum. Sjaldan hló hann. Úblíðr var hann hversdagliga við alþýðu. Mikill var hann vexti ok drengiligr í ásjánu, ramr at afli. Þorgeirr átti exi breiða, stundar mikla, sköfnungsexi; hón var snarpegg ok hvöss, ok fjekk mörgum manni exin náttverð. Hann átti ok mikið fjaðrspjót; þat var með hörðum oddi ok hvössum eggjum — mikill falrinn ok digrt skapt. Í þann tíð var á Íslandi sverð ótíð mönnum til vápnabúnings. Nú er Þorgeirr spurði víg föður síns, þá fór hann á Reykjabóla til Þorgils, ok sagði honum, at hann vildi fara suðr í Borgarfjörð, at hitta móður sína, ok bað, at hann skyldi fá honum flutning yfir Breiðafjörð. Þorgils gerði sem hann bað. Nú ferr hann suðr í Borgarfjörð, ok er ekki getið um

náttstaði hans. Færðer voru góðar ok snælaust í hèraðinu; vötnin lágu öll. Ok er hann kom suðr yfir Hvítá, þá lagði hann leið sína til Skeljabrekku. Veðr var þykkt ok hlætt — myrkt úti, bæði firir veðrs saker ok nætr. Þorgeirr kom til Skeljabrekku síð um aptan; ok er hann kom á bæinn, þá voru dyrr aptr loknar ok menn ný-komner í stufu frá eldi. Ljós brann í stufunni. Þorgeirr drap á dyrr. Jöðurr tók til orða: „Á dyrr er drepit; gangit út nokkurr sveina!" Þá sá út húskarl einn, ok sèr mann úti firir dyrunum standa með vápnum, ok spyrr, hverr hann veri. Hann svarar: „Vígfús heiti ek". Húskarlinn mælti: „Gakk inn þú! heimul mun þèr gisting". Þorgeirr svarar: „Eigi þigg ek gisting at þrælum; mæl þú, at Jöðurr gangi út". Húskarl gengr inn, er Þorgeirr stóð úti. Bóndi spurði húskarl, er hann kom í stofu: „Hverr kom maðr úti?" Húskarl svarar: „Veit ek at síðr, hverr hann er, at ek ætla, at hann viti ekki sjálfr". Jöðurr segir: „Hvárt bauð þú honum hèr gisting?" Hann svarar: „Bauð ek". Jöðurr mælti: „Hverju svaraði hann?" „Ekki lèz hann vilja þiggja gistingarboð at þrælum; bað hann þik út koma". Jöðurr tók spjót í hönd sèr ok setti hjálm á höfuð sèr ok gengr út í dyrr ok 2 húskarlar með honum, sèr mann standa firir dyrum, ok snýrr spjótinu ok setti spjótsoddinn í þreskjöldinn. Hann spurði, hverr enn komni maðr veri. Sá sagði: „Ek heiti Þorgeirr". Jöðurr sagði: „Hverr Þorgeirr ertu?" „Ek er Hávars son". Jöðurr mælti: „Hvert er erendi þitt hingat?" Hann sagði: „Ekki veit ek, hvat til tíðenda verðr; en eptir vil ek leita, ef þèr vilìt nokkuru bæta víg þat, er þú vátt Hávar föður minn". Jöðurr mælti: „Ekki veit ek, hvárt þú hefir það spurt, at ek hefi mörg víg veigit ok ek hefi ekki bætt." „Ókunnigt er mèr þat" segir Þorgeirr; „en hvat sem um þat er, þá kemr

þetta til mín, at leita eptir þessum vígsbótum; því at mèr er nærr höggit". Jöðurr segir: „Ekki er mèr allfjarri skapi at minnaz þín í nokkuru; en firir því mun ek ekki þetta víg bæta þèr, Þorgeirr, at þá þikir öðrum skylt, at ek bæta fleiri víg". Þorgeirr svarar: "Þèr munut ráða, hvern sóma þèr villt gera; en vèr munum ráða þykkju várri". Nú rædduz þeir þessi orð við, ok stóð Þorgeirr ekki allnærr dyrunum; hann hefir spjót í hægri hendi, ok snèri framm oddinum, en exi í vinstri hendi. Jöðurr ok hans menn áttu dimmt út at sjá, þar sem þeir voro frá ljósi komnir; en Þorgeiri var nokkuru hægra at sjá þá, sem stóðu í dyrunum. Nú er þá varir síz, þá gengr Þorgeirr at dyrunum, ok lagði spjóti á honum miðjum, ok þegar í gegnum hann, svá at hann fèll í dyrrnar inn í fang þeim fylgðarmönnum sínum. Þorgeirr snýrr í brott þegar í náttmyrkrinu; en húskarlar Jöðurs stamba honum. Þá var Þorgeirr 15 vetra gamall, er víg þetta varð, sem Þormóðr kvað í erfidrápu Þorgeirs:

Starf hófz upp þá er arfa
auðveitir lèt dauðan
(hest-rennir var blunna-
hugsnjallr) Klæings falla;
efnd tók Hávars hefndar
hafstóðs þá er var móði
(hann varð höpp at vinna
hvetr) 15 vetra.

Þorgeirr fór um nóttina, ok nam ekki fyrr staðar, enn á Hávarsstöðum. Hann drap þar á dyrr ok var seint til hurðar gengit. Þórelfr kvaddi til húskarl einn út at ganga. Hann vaknar ok gnýr fast augun ok lætr illa við upp at standa ok mælti: „Ekki veit ek, at nauðsyn sè út at ganga, þótt menn fari um nætr". Þórelfr mælti: „Sá einn mun

um nætr fara í miklu myrkri, at nauðsyn mun á þikja". „Ekki veit ek þat" segir húskarl, ok rís upp, ok heldr seint, ok gengr til hurðar ok sèr mann úti firir dyrum í náttmyrkri ok heilsar honum ekki — snýr inn aptr til rekkju sinnar ok leggz niðr ok breiðir á sik klæði sín. Þorgeirr gengr inn ok lýkr aptr hurðina eptir sèr ok snýr til stufu. Þórelfr tók til orða: "Hverr kom maðr?" Húskarl segir: „Þat er bæði, at ek veit ekki, hverr hann er, enda þikki mèr ekki undir". Hón mælti: „Óforvitinn maðr ertu". Hón mælti þá við griðkonu eina: „Rís upp þú, ok gakk til stufu, ok vit, hverr maðr sá er, at þangat gekk". Griðkona reis upp, ok gekk til stufu, ok lýkr upp hurðinni líttat, ok spyrr at, hvárt nokkut sè manna í stofunni. Henni var sagt: „Hèr er maðr víst". Hón spyrr, hverr hann veri. Hann svarar: „Þorgeirr heiti ek". Hón lýkr aptr hurðina ok gekk í skála. Þórelfr mælti: „Hverr kom maðr?" Hón segir: „Þat ætla ek, at kominn sè Þorgeirr, son þinn". Þórelfr ríss þá upp ok kveykir ljós, gengr til stofunnar ok fagnar vel syni sínum — spyrr tíðenda. Þorgeirr svarar: „Áverki nokkurr gerðiz í kveld at Skeljabrekku". Þórelfr spyrr: „Hverìr áttu hlut í því?" Þorgeirr svarar: „Ekki má ek þat af mèr bera". — Þórelfr segir: „Hversu mikill áverki var þat?" Þorgeirr svarar: „Ekki ætla ek at þar muni umbanda þurfa, er hann fèkk af mèr; þąt sá ek á spjóti mínu, at út mundi tekit hafa í gegnum hann, ok fèll hann á bak aptr í fang fylgðarmönnum sínum". Þórelfr mælti þá með glöðu brjósti: „Úbernsligt bragð var þat, ok njóttu heill handa, son minn! En hví lögðu þeir ekki eptir þèr, fylgðarmenn hans?" Þorgeirr segir: „Fengin voro þeim í fyrstu önnur verkaefni; en brátt fal sýn meðal vár firir myrkrs sakir". Þórelfr segir: „Svá má vera". Þá var settr náttverðr firir Þorgeir. Ok er hann var mettr,

þá mælti Þórelfr: „Þat sýniz mèr ráð, at þú leggiz niðr til svefns; en rís upp ofanverða nátt ok stíg þá á bak hesti þínum ok ríð vestr til Breiðafjarðar; húskarlar mínir skulu fylgja þèr svá langt sem þú vill. Hèr muno menn koma á morgin at leita þín, ok höfum vèr ekki ríki til at halda þik firir fjölmenni. Vötn mun ok skjótt leysa, ef þeyrrinn helz, ok er þá verra at fara, ef þau leysir. Hefir þú nú unnit þat hèr, er mest nauðsyn bar til. Berðu Þorgilsi frænda mínum orð til þess, at hann taki mèr nokkurn ráðstafa vestr þar hjá sèr; ek mun selja jarðir mínar hèr; vil ek ráðaz þangat í átthaga minn". Þorgeirr gerði sem móðir hans gaf ráð til: lagðiz til svefns ok reis upp ofanverða nótt ok reið eptir þat í brott; ok er ekki getit um hans ferð fyrr enn hann kom vestr í Breiðafjörð, fèkk sèr þar skip ok fór á því vestr á Reykjanes ok sagði þar víg Jöðurs. Sýndiz öllum mönnum, þeim er heyrðu þessa tíðenda-sögn, sjá atburðr undarligr orðinn, at einn ungr maðr skyldi orðit hafa at bana svá harðfengum hèraðshöfðingja ok svá miklum kappa, sem Jöðurr var. En þó var þat ekki undarligt; því at enn hæsti höfuðsmiðr hafði skapat ok gefit í brjóst Þorgeiri svá öruggt hjarta ok hart, at hann hræddiz ekki, ok hann var svá öruggr í öllum mannraunum sem it óarga dýr. Ok af því at allir góðir hlutir eru af guði gervir, þá er örruggleikr af guði gerr ok gefinn í brjóst hvötum dreingjum, ok þar með sjálfræði at hafa til þess er þeir vilja, góðs eða ills; því at Kristr hefr kristna menn sonu sína gert, en ekki þræla; en þat mun hann hverjum gjalda, sem til vinnr. — Þorgeirr hafðiz þá við ýmiz á Reykjahólum eða vestr í Ísafirði. Um várit eptir þessi tíðendi rèz Þórelfr vestr á Reykjanes með allt fè sitt. Þat sumar var sæz á víg þeira Jöðurs. Þorgeirr var þá löngum með Bersa. Voro þeir Þormóðr

enir beztu vinir — fengu sèr einn ferjustút, ok rèðuz til þess skips 7 menn aðrir með þeim, lètu reiða yfir um sumarit í ýmsa staðe, ok voro miðlungi vinsælir. Ingólfr hèt maðr, er bjó í Jökulsfjörðum; hann var kallaðr Ingólfr sviðinn; sá bærr var kallaðr á Sviðinsstöðum, er hann bjó á. Þorbrandr hèt son hans; hann var garpr mikill ok ódæll ok úvinsæll. Þeir feðgar báðir voro újafnaðarmenn mikler — tóku jafnan annarra manna fè með kúgan eða ránum. Þeir voro báðir þingmenn Vermundar, ok hèlt hann mjök hendi yfir þeim; því at þeir gáfu honum jafnan góðar gjafir; ok var þeim því ekki skjótt hefndr sinn ofsi, sá er þeir höfðu við marga menn, at eiðr Vermundar stóð firir þeim. Sigrfljóð hèt kona ok var ekkja ok bjó í Jökulsfjörðum; hón var vitr ok vinsæl, ok var mörgum manni mikill gagnsmaðr. Fjörðr var í milli byggða þeira Sigrfljóðar ok Ingólfs, ok bar hón í mörgum hlutum stór vandræði firir þeim. Þorgeirr ok Þormóðr bjugguz til ferðar norðr á Strandir ok fara at föngum; ok er þeir voro búnir, þá lagði á firir þeim andviðri, ok gaf þeim ekki lægi út ór firðinum; höfðu margir menn af þeim um sumarit mikil óhægindi. Ok er komit var at vetri, þá rann á byrr, ok tóku þeir þá til segls, ok sigldu út ór Ísafirði gott veðr ok lítið; skip gekk lítið firir veðrs sakir; ok er þeir höfðu siglt um stund, þá tók veðrit at þykkna ok því næst at drífa; ok er þeir voro komnir firir Jökulsfjörðu, þá kom veðr í móti þeim hvasst ok kalt með fjúki ok frosti; vissu þeir þá ekki, hvert þeir fóro; gerðiz þá myrkvi mikill bæði af nótt ok fjúki; snèru nú forviðris skipinu ok fengu stór áföll, urðu allir alvátir ok frusu at þeim klæðin; reyndu ránardætr dreingina ok buðu þeim sín faðmlög; komu at lyktum á fjörð einn; hèldu þar inn eptir — ok í fjarðarbotninum voro naust ok þar skip inni; þar settu þeir upp skip sitt,

ok bjuggu um, ok ganga á land síðan, ok leita bæjar nokkurs — finna um síðir bæ einn lítinn, drepa þar á dyrr, ok geingr þar út karlmaðr ok heilsar þeim, biðr þá inn ganga, er úti voro í illu veðri; ok ganga þeir til stufu, ok brann þar ljós; skipa þeir annan bekk. Þeim var heilsat. Þá spyrr ein kona, hverr firirmaðr veri þeira, er komnir voro. Henni var sagt, at komnir voro Þorgeirr ok Þormóðr — „Eða hverr spyrr at því?" sögðu þeir. Þeim var sagt, at Sigrfljóð húsfreyja spurði at því. „Heyrt hefi ek ykkar getit" segir hón, „en ekki hefi ek sèð ykkr fyrr; en hvárt hafi þið verit veðrsælir í dag eða vinsælir?" Þeir sögðu: „Margir menn muno þat mæla, at þat sè mjök glíkt, ok mun þá skipta nokkuru, hverir um ræða." Sigrfljóð segir: „Vera má, at þat sè".

4. Nú biðr hón taka við klæðum þeira, ok var eldr upp kveyktr firir þeim ok þídd klæði þeira. Eptir þat var þeim matr fenginn, ok eptir þat til rekkju fylgt ok búit um vel. Sofna þeir skjótt. Fjúk ok frost gekk alla nóttina; gó elris hundr alla þá nótt óþrotnum kjöptum ok tögg allar jarðir með grimmum kulda-tönnum. Ok er lýsa tók um morgininn, þá var út sèð. Ok er sá kom inn, er út hafði sèð, þá spyrr Þorgeirr, hvat veðrs veri úti. Sá sagði, at veðr veri et sama ok verit hafði um kveldit. Sigrfljóð mælti: „Þèr þurfit ekki veðrsjúkir at vera; því at vel skulu þèr hèr komnir at því er vèr megum; ok fari þèr hèðan ekki fyrr enn gott veðr er". Þorgeirr svarar: „Vel ferr þèr, húsfreyja, boð við oss; en ekki bíta oss illviðri; vèr eigum hvárki at sjá firir konum nè börnum nè kvikfè". Illviðri tók þá at lægja á víkr ok fjörðu ok gerðu íslög mikil. Einn morgin reis Sigrfljóð upp snemma ok sá út — kemr inn farandi; ok spyrr Þorgeirr, hvat veðrs veri úti. Hón svarar: „Nú er gott veðr, þunnt ok úvindligt". Þor-

móðr mælti: „Stöndum upp þá, sveinar!" Sigrfljóð mælti: „Hvat ætliz þèr firir?" Þormóðr svarar: „Vèr munum fara norðr á Strandir, ok vita, hvat þar villi til fanga bera, en láta hèr eptir skip várt". Sigrfljóð mælti: „Undarlegir menn ero þèr — vilìt fara á Strandir at hvölum, en taka ekki nálægri föng ok dreingiligri". Þormóðr mælti: „Hvar ero þau föng?" Hón segir: „Dreingiligra sýniz mèr at drepa þá illvirkja, er hèr ræna menn, en starfa at hvölum". Þormóðr mælti: „Til hverra manna mælir þú?" Hón svarar: „Þat mæli ek til þeira Ingólfs ok Þorbrands, er mörgum manni hafa gert skömm ok skaða — hefðit þá margra manna hefnt í yðru verki, ef þèr dræpit, ok mundi þat verk margir yðr allvel launa". Þormóðr mælti: „Ekki veit ek, hversu heilráð þú ert oss nú; því at þeir ero vinir Vermundar, ok mun þat ekki laust eptir renna, ef þeim er nokkut til meins gört". Hón mælti: „At því kemr nú, sem mælt er, at spyrja er bezt til váligra þegna. Þèr þikiz vera garpar miklir, þá er þèr eruð í þeim veg at kúga kotunga, en hræðiz þegar er í mannraunir kemr". Þá spratt Þorgeirr upp ok mælti: „Standit upp, sveinar, ok launit húsfreyju gisting". Ok þá stóðu þeir upp ok vápnuðu sik; gengu út, er þeir voro búnir; fara yfir fjörðinn á ísi; koma á bæinn, áðr menn voro upp staðnir. Ingólfr vaknar, ok heyrir, at menn ganga úti hjá húsunum, ekki allfáir saman, á frernum skóm. Þeir Þorgeirr ganga til dyra ok drepa á dyrr. Við þat vakna menn þeir sem í skálanum voro ok standa á fætr skjótt. Hvíldu þeir feðgar jafnan í klæðum; því at þeir áttu sökótt við marga menn. Þeir höfðu með sèr 2 húskarla; þeir herklædduz aller; tekr sitt spjót hvárr þeira í hönd sèr; ganga til hurðar ok lúka upp; sjá mennina úti, 8, ok alla vápnaða; spyrja, hverr þar sje flokks foringi. Þorgeirr segir til sín — „Ef þèr hafit heyrt getið

Þorgeirs Hávars sonar eða Þormóðar Bersa sonar, þá megu þèr bèr þá sjá". Þorbranðr svarar: „Ifalaust er þat, at vèr höfum heyrt getið Þorgeirs Hávars sonar ok Þormóðar, ok sjaldan at góðu; eða hvert er erenði yðvart hingat?" Þorgeirr segir: „Þat er várt erenði hingat, at skapa skor ok jafna ójafnat. Vèr viljum gera yðr 2 kosti — annat hvárt, at þèr gangit hèr frá fje yðru öllu, því er þèr hafit rangliga fengit, ok kaupit yðr þannveg líf, eða þèr verìt fèit með karlmennsku, meðan yðr endiz líf til". Þorbrandr svarar: „Vèr höfum fengit fèit með karlmennsku ok hraustleik, ok munu vèr ekki annan veg láta, en vèr höfum fengit. En ek hygg, Þorgeirr, at þú neytir fyrr dagverðar á spjóti mínu, en á fènu". Þorgeirr svarar: „Ek em berdreymr, sem ek á kyn til, ok hefir mik einkar órýrliga dreymt um mik, en allrýrligt um þik; ok mun þat eptir ganga, sem mik hefir um þik dreymt, ok mun Hel, húspreyja þín, leggja þik sèr í faðm, ok muntu svá láta fè þitt allt — því at firrnum nýtr þess er firrnum fær".

5. Nú at svá mæltu sækja þeir Þorgeirr ok Þormóðr at þeim feðgum, en bönnuðu förunautum sínum at vinna á þeim feðgum — því at þeir vildu sjálfir yfir þá stíga. Þeim Þorgeiri var dimmt at sjá inn í dyrrnar — því at lítt var lýst; en út var ljósara at líta; ok var þeim hægra at verjaz, er inni voru, en hinum at at sækja, er úti voro. Húskarlar Ingólfs hlaupa annat skeið út ok sæta áverkum við förunauta Þorgeirs. Þau urðu endalok þessa fundar, at Þorbrandr fjell firir Þorgeiri, en Ingólfr firir Þormóði. 2 menn fèllu af liði Þorgeirs. Húskarlar Ingólfs urðu sárir mjög, þess at þó batnar þeim. Þessa getr Þormóðr í erfidrápu Þorgeirs:

Aldrspelli kveð ek ollu
Ingólfs sonar (þingat

frjett er víg, sem ek vjetti)
valdr alföðurs tjalda;
fjell firir fræknum stilli
(fjörtjón var þat ljóna)
[lítt var þar til þrætu]
Þorbrandr drasils vandar.

Þeir tóku hesta 2, Þorgeirr ok hans menn, ok klyfjuðu þá af mat; þeir ráku á brott þrjú naut, þau er helz voro hold á; fara við svábúit aptr yfir fjörðinn. Sigrfljóð var úti, er þeir koma heim. Hón heilsar þeim, ok spurði tíðenda. Þeir segja þau sem gerz höfðu. Hón mælti: „Vel hafi þèr heiman gengit ok hagligan hafi þèr haft hvalskurðinn, rekit ok vel margra manna harma ok sneypu ok svívirðu. En nú mun ek fara til Vazfjarðar á fund Vermundar ok segja þessi tíðendi; en þèr skulut mín heima bíða”. Þeir báðu hana fara. Hón kvaddi til ferðar með sèr húskarla sína. Þau tóku einn sexæring, er hón átti; róa inn eptir Ísafirði, ok ljetta ekki fyrr en þau koma í Vazfjörð síð um aptan. Hón mælti við förunauta sína: „Nú skulu þèr vera haldinorðir, ok segja ekki frá tíðendum þeim er gerz höfðu; láti mik hafa orð fyrir oss”. Þeir sögðu svá vera skulu. Nú ganga þau til bæjar ok hitta menn at máli. Tekr Vermundr vel við þeim ok spyrr þau tíðenda. Þau ljetuz engi kunna at segja. Voru þar um nóttina í góðu yfirlæti. Um morgininn sagði Sigrfljóð, at hón mundi heimleiðiss fara. Vermundr latti hana mjög — „Ok ertu hingat sjaldsjen” segir hann, „ok er þat ráð, at fara ekki svá hvatliga”. Hón mælti: „Ek á lítt heimangengt; en nú er gott veðr, ok vil ek ekki þetta færi láta undan ganga; vilda ek, Vermundr, at þú fylgdir mèr til skips”. Þá mælti hann: „Förum þá!” Nú fara þau til skips. Þá mælti Sigrfljóð: „Hvárt hefir þú spurt vígin þau er gerðuz

þar í Jökulsfjörðum?" Vermundr segir: „Hver víg ero þau?" Hón svarar: „Þorgeirr Hávars son ok Þormóðr Bersa son drap þá feðga, Ingólf ok Þorbrand". Vermundr mælti: „Mjög ganga þeir fóstbræðr nú af sèr, er þeir drepa menn firir oss, ok mundu vèr þat vilja, at þeir dræpi ekki vára menn marga". Hón mælti: „Þat er sem ván er, at yðr sje svá um gefit; en þat munu sumir menn mæla, at þeir hafi ekki þessa menn firir yðr drepit; heldr má hinn veg at kveða, at þeir hafi þessi víg firir yðr unnit. En hverr skal hegna ósiðu, rán eða hernat, ef ekki vili þèr, er stjórnarmenn erut kallaðer hèraða. Sýniz oss, at þeir Þorgeirr ok Þormóðr hafi þat unnit, er þèr skyldut gert hafa eða láta gera; ok mun yðr svá sýnaz, sem ek segi, ef yðr gefr ekki missýni í þessu máli. Fór ek af því á yðvarn fund, at ek vilda mennina í frið kaupa, þá er vígin hafa vegit, en ekki firir þá sök, at þeir sje bóta verðer, er vegnir ero — því at þeir hafa firir löngu firirgert lífi sínu ok fje; heldr viljum vèr gera í öllu þinn sóma, sem vèr erum skyld til; ok ero hèr nú 3 hundrud silfrs, er ek vil gefa þèr til friðkaups þeim Þorgeiri ok Þormóði". Nú tekr hón fjesjóð undan belti sèr, ok steypir fènu í knje Vermundi. Silfrið var gott. Vermundr hefr upp brún við fjegjöfina; sefaz hann af reiðinni, ok heitr hann Þorgeiri ok Þormóði nokkurum friði; sagðiz þó ekki vilja langvistir Þorgeirs þar um Ísafjörð. Nú skiljaz þau at sinni. Ferr hón heim til búss síns, ok segir þeim Þorgeiri, hversu farit hafði með þeim Vermundi. Þeir þakka henni sitt tillag, er hón hafði þeim veitt. Nú ero þeir með henni um vetrinn. Ok er várar ok veðrátta batnar, þá flota þeir skipi sínu ok búa þat. Ok er þeir voro búnir til ferðar, þá þakka þeir henni þarvist sína ok allan velgerning þann er hón hafði þeim veitt, slíkan dreingskap sem hón hafði þeim sýnt.

Skiljaz þau vinir. Þeir fara norðr á Strander; hafaz þar við um sumarit; verðr þeim gott til fjár ok fangs; hafa þeir þat af hverjum manni, sem þeir kveðja; voro aller við þá hrædder, sem fènaðr við león, þá er hann kemr í þeira flokk. Bersi fór byggðum á Laugaból í Laugadal; því at Vermundr vildi ekki svá nærr bæ sínum láta vera hráskinn þeira Þorgeirs ok Þormóðar. Um haustið fóro þeir norðan af Ströndum til Ísafjarðar ok settu upp skip sitt þar er þeim þótti vel komit ok búa um. Ferr Þormóðr þá til föður síns, en Þorgeirr ætlaði at fara suðr á Reykjanes til frænda sinna. Leitar þá hverr firir sèr þeira förunauta, þangat hverr sem óðal átti; mælaz þeir þat við, er þeir skiljaz, at þeir skulu þar finnaz, er skipit stóð, þá er vára tæki, ok fara þá enn aller samt til fangs norðr á Strander. Skiljaz nú at svá mæltu, ok biðr hverr þeira vel firir öðrum.

6. Þorkell hèt maðr, er bjó í Gerviðal. Hann var vel fjáreigandi, en lítill í þegnskap, en eirinn í skaplyndi, huglauss í hjarta. Hann var kvángaðr maðr ok hafði ekki fleiri hjón en þrjú; griðkona var it þriðja hjón. Maðr hèt Butraldi. Hann var einhleypingr, mikill maðr vexti, rammr at afli, ljótr í ásjánu, harðfeingr í skaplyndi, vígamaðr mikill, nasbráðr ok heiptúðigr. Hann hafði vistir um sumrum ok tók kaup, en ljet reiðaz yfir á vetrum með þriðja mann ok settiz á bæi nokkurum nóttum saman. Hann var nokkut skyldr at frændsemi Vermundi í Vazfirði; ok því var honum ekki skjótt goldit þat verkkaup, sem hann gerði til. Butraldi kom með þriða mann til gistingar í Gervidal til Þorkels um kveld; ok þótt Þorkeli veri sárr matr, þorði hann þó ekki at synja þeim gistingar, ok er þeim til stofu fylgt ok kveykt ljós; sitja þeir þar með vápnum sínum, en heimamenn voro framm í skála. Þá var nokkut kominn snjórr á fjöll í skafla, en mjög snjólaust í hèraðinu — vötnin upp

gengin, en þá var frostviðri, var þá ok fjúk nokkut. Þorkell kom í stufu, at spyrja þeira hluta, er honum var forvitni á at vita. Hann spyrr Butralda, hvert hann ætlar at fara. Hann kvaz fara skyldu suðr yfir Breiðafjörð. Þorkeli þótti ekki víst, hvárt honum mundi veðr gefa enn næsta dag yfir heiðina. Þá drap stall ór hjarta hans, ok þótti ill seta þeira; því at í hans hjarta mættiz sínka ok lítilmennska; ok í því bili heyrir hann, at drepit er á dyrr; ok batnar honum ekki við þat; gengr hann fram, ok til dyra, ok lýkr upp hurðunni, ok sèr einn mikinn mann standa með vápnum firir dyrunum. Þorkell spyrr þann mann at nafni. Hann nefndiz Þorgeirr. Þorkell spyrr, hvers son hann veri. Hann kvaz vera Hávars son. Þá kemr æðra í brjóst Þorkeli, ok dattaði hjarta hans við. Þorkell mælti þá: „Hèr er kominn Butraldi við 3. mann, ok veit ek ekki, hvern frið hann býðr þèr; hygg ek, at hann hafi illan hug á þèr; því at hann er vinr Vermundar óvinar yðvars; en ek má ekki manns blóð sjá, ok mun ek í öngvit falla, ef þèr berìz á". Þorgeirr svarar: „Ekki mun til skaða, bóndi, þótt vèr sèm hèr komner". Gengr Þorgeirr inn, ok til stufu. Þorkell kemr ok í stufu, ok kerling hans. Hann tekr borð ok setr firir Butralda. „Skammr er skutill minn" segir Þorkell, „ok gakk þú hingat, Þorgeirr, ok sit hjá Butralda". Þorgeirr gerir svá, gengr um þvert gólf, ok sezt niðr hjá Butralda, under borðs endann. Frá verðgetum er sagt vandliga: 2 diskar voro framm bornir; þar var eitt skammrifstykki fornt á diskinum hvárum ok forn ostr til gnættar. Butraldi signði skamma stund, tekr upp skammrifit, ok skerr, ok neytir, ok leggr ekki niðr, fyrr en allt var ruðt af rifjum. Þorgeirr tók upp ostinn, ok skar af slíkt er honum sýndiz; var hann harðr ok torsóttr. Hvárrgi þeira vildi deila við annan kníf nje keytstykki. En þó at þeim veri lítt verðr vandaðr, þá

fóru þeir þó ekki til sjálfir at skepja sèr mat; því at þeim þótti þat skömm sinnar karlmennsku. Þá var matr framm settr firir Þorkel ok kerlingu hans; þau mötuðuz við eld. Þau komu stundum í stufu, ok luku upp hurðu, ok skygndu í stofuna all-óframliga; ok er gestir voro mettir, þá kom Þorkell í stufu, ok kerling hans, ok tekr hón mat af borði, en Þorkell tók til orða: „Þau gistingarlaun vilda ek hafa, at þèr ættiz ekki illt við, meðan þèr erut hèr á mínum bæ; því at mèr orkar þat margra vandræða, ef þèr beriz hèr á. Sýniz mèr þat ráð, at Þorgeirr sofi fram hjá oss, í skála, en Butraldi ok hans förunautar sofi hèr í stofunni". Svá gera þeir — sofa nú af nóttina. Ok er lýsa tók, var Butraldi snemma á fótum, ok Þorkell. Þorgeirr var ok snemma á fótum. Þá var kveykt ljós í stufu ok borð framm sett ok matr á borinn með sama hætti ok um kveldit hafði verit. Þá tekr Þorgeirr upp skammrifit, ok skerr, en Butraldi býr þá við ostinn. Ok er þeir voro mettir, þá ferr Butraldi á brott, ok hans förunautar; hann ferr upp eptir dalnum, svá sem leið liggr. Nokkuru síðarr ferr Þorgeirr; hann ferr ok upp eptir dalnum. Á fellr ofan eptir dalnum. Brött heiðarbrekka var upp ór dalnum Gervidal, þar sem þjóðleið liggr. Í brekkunni var þá skafl, mikill ok harðr. Þorgeirr sèr þá, hvar þeir Butraldi fara, ok þikiz vita, at þeir munu eiga harðfenni mikit í heiðarbrekkunni ok torvelda leið; snýr yfir ána, ok ferr upp öðrum megin árinnar; — en þeir fóro upp á brekkuna; — ok snýr þá aptr á þjóðleiðina. Butraldi kom at skaflinum ok skorar með exi sinni firir sèr. Þorgeirr sèr þá, hvar Butraldi fór; en Þorgeirr var * * * uppi á brekkunni. Butraldi mælti þá: „Rann kappinn nú". Þorgeirr svarar: „Ekki rann ek. Því fór ek aðra leið, at ek þurfta ekki at skora fönn firir mèr; en nú mun ek ekki renna undan

yðr". Þorgeirr stendr þá á brekkubrúninni; en Butraldi skorar fönnina. Ok er hann kom í miðja brekkuna, þá setr Þorgeirr spjótskepti sitt undir sik ok snýr framm oddinum, en hefir exina reidda um öxl — rennir fönnina ofan at Butralda. Hann heyrir hvininn af för Þorgeirs, ok lítr upp, ok finnr ekki fyrr, en Þorgeirr hjó framan í fang honum ok þar á hol. Fellr hann á bak aptr; en Þorgeirr rennir framm yfir hann, til þess at hann kemr á jöfnu, svá harðt, at förunautar Butralda hrjóta frá í brott. Um þenna atburð er þetta erendi ort:

Vel dugir verk at telja
[vápna hreggs] firir seggjum
(opt flýgr geirr frá gunni)
[gjóð] Butralda [hljóða];
þótt kynni mun minni
marghróðanda þjóðar
(nje ek hnekkig því) þakkar
þess vígs fetils stíga.

Förunautar Butralda þora ekki at hefna hans, nje ráða á Þorgeir; því at þeim þótti illt at eiga náttból under vápnum Þorgeirs. Styrma þeir yfir Butralda; en Þorgeirr snýr upp á heiðina ok ferr til þess er hann kemr suðr á Reykjahóla. Hann hefir þar góðar viðtökur — var þar um vetrinn í góðu yfirlæti. Vetrarríki var mikit víða um hèrut, ok fjell fje firir mönnum — búin óhæg. Sóttu margir menn norðr á Strandir til hvalfanga.

7. Um várit eptir fór Þorgeirr til Ísafjarðar, þangat sem skip þeira stóð uppi. Þar kom ok Þormóðr ok skipverjar þeira. Þeir fara norðr á Strander, þegar þeim gaf byr. Þorgils hèt maðr, er bjó at Lækjamóti í Víðidal. Hann var mikill maðr ok sterkr, vápnfimr, góðr búþegn. Hann var skyldr Ásmundi hærilang, föður Grettiss. Hann var ok skyldr

Þorsteini Kugga syni. Þorgils var Márs son. Hann fór ok á Strandir, ok var á hval þann er kom á almenningar, ok förunautar hans. Þorgeiri verðr ekki gott til fangs, þar sem hann var kominn; berr honum engi hvalföng í hendr, þar sem hann var kominn, nje önnur gæði. Nú spyrr hann, hvar Þorgils var á hvalskurðinum, ok fara þeir Þormóðr þangat; ok er þeir koma þar, þá mælti Þorgeirr: „Þèr hafit mikit at gert um hvalskurðinn; ok er þat vjænst, at láta fleiri af njóta, en yðr, þessa gagnsmuna; er hèr öllum jamheimolt". Þorgils svarar: „Vel er þat mælt — hafi hverr þat sem skorit hefir". Þorgeirr mælti: „Þèr hafit mikinn hluta skorit af hvalnum, ok hafi þèr þat sem nú hafi þèr skorit; ok vildum vèr annat hvárt, at þèr gangit af hvalnum, ok hafi þèr þat sem þèr hafit af skorit, en vèr þann hluta, er óskorinn er, eða hvárir at helmingi bæði skorinn ok óskorinn". Þorgils svarar: „Lítið er mèr um at ganga af hvalnum; en vèr erum ráðnir til at láta ekki lausan þann hlut firir yðr, er skorinn er, meðan vèr megum á halda á hvalnum". Þorgeirr mælti: „Þat munu þèr þá reyna verða, hversu lengi þèr haldit á hvalnum firir oss". Þorgils svarar: „Þat er ok vel, at svá sje". Nú herklæðaz hvárirtveggju ok bjugguz til bardaga. Ok er þeir voro búnir, þá mælti Þorgeirr: „Þat er vjænst, Þorgils, at vèr sækjumz; því at þú ert fulltíði at aldri ok knáligr ok reyndr at framgöngu; ok er mèr forvitni á, at reyna á þèr, hverr ek em; skulu aðrer menn ekki til okkars leiks hlutaz". Þorgils svarar: „Vel líkar mèr, at svá sje". Mjög voro þeir jamliða. Nú sækjaz þeir ok berjaz hvárirtveggju. Þeir Þorgeirr ok Þorgils láta skammt höggva í milli; því at hvártveggi þeira var vápnfimr. En firir því at Þorgeirr var þeira meirr lagðr til mannskaða, þá fjell Þorgils firir honum. Í þeim bardaga fjellu 3 menn af Þorgils liði; aðrer 3

fjellu af liði þeira Þorgeirs. Eptir þenna bardaga fóro förunautar Þorgils norðr til hèraðs með miklum harmi. Þorgeirr tók upp allan hvalinn, skorinn ok óskorinn. Firir víg Þorgils varð Þorgeirr sekr skógarmaðr. Firir hans sekt rjeð Þorsteinn Kugga son ok Ásmundr hærulangr. — Þeir Þorgeirr ok Þormóðr voro þat sumar á Ströndum, ok voro þar aller menn hrædder við þá, ok gengu þeir einir yfir allt sem lok yfir akra. Svá segja sumir menn, at Þorgeirr mælti við Þormóð, þá er þeir voro í ofsa sínum sem mestum: „Hvar veiztu nú aðra 2 menn okkr jafna í hvatleika ok karlmennsku, þá er jammjög sje reynder í mörgum mannraunum, sem vit erum?" Þormóðr svarar: „Finnaz munu þeir menn, ef at er leitað, er ekki ero minni kappar, en vit erum". Þorgeirr mælti: „Hvat ætlar þú, hvárr okkarr munði af öðrum bera, ef vit reyndim með okkr?" Þormóðr svarar: „Þat veit ek ekki; en hitt veit ek, at sjá spurning þín mun skilja okkra samvistu ok föruneyti, svá at vit munum ekki löngum ásamt vera". Þorgeirr segir: „Ekki var mèr þetta alugat, at ek vilda, at vit reyndim með okkr harðfengi". Þormóðr mælti: „Í hug kom þèr, meðan þú mæltir, ok munu vit skilja fèlagit". Þeir gerðu svá; ok hefir Þorgeirr skip, en Þormóðr lausafje meira, ok ferr á Laugaból; en Þorgeirr hafðiz við á Ströndum um sumarit, ok var mörgum manni andvaragestr. Um haustið setti hann upp skip sitt norðr á Ströndum ok bjó um ok stafaði firir fje sínu. Síðan fór hann á Reykjahóla til Þorgils ok var þar um vetrinn. Þormóðr víkr á nokkut í Þorgeirsdrápu á misþokka þeira í þessu erendi:

Frjett hefir öld, at áttum
(undlinns) þá er svik vinna
(rjóðanda naut ek ráða)
rógsmenn saman gnóga.

Enn vil enkiss minnaz
(œsi-dýrs við stýri
raun gat ek fyrða fjóna
flóðs), nema okkars góða.

8. Skip stóð uppi í Norðrá í Flóa. Þar var þá skipa höfn tíð. Í því skipi keypti Þorgils ok Illugi bróðer hans á laun til handa Þorgeiri, ok ljetu búa um varnat at þeim hluta, er Þorgeirr átti í skipinu. Þeir Þorgils ok Illugi riðu ekki til öndverðs þings um sumarit; því at þeir vildu ekki fyrr fara um Breiðafjarðardali, en Þorsteinn Kugga son veri riðinn ór hèraði til þings; því at þeir vildu þá fylgja Þorgeiri til skips, skógarmanni Þorsteins. Maðr hèt Skúfr, er bjó í Hundadal í Dölum. Skúfr var góðr bóndi ok gagnsamr við menn. Bjarni hèt son Skúfs, er þar var heima með honum. Skúfr hèt ok sauðamaðr Skúfs í Hundadal. Nú fara menn til þings; en þeir fara vestan af Reykjahólum. Þeir hafa sendt menn firir til þings, at tjalda búðer sínar. Þeir hafa náttverð í Saurbæ, en ríða um nóttina vestan í Dali ok ætluðu at hafa dagverð í Hundadal. Þeir koma, er mornaz, í Miðdali, framm firir Þykkvaskóga. Þeir eta þar ok sofa. Þorgeirr hefir rauðan hest, vænan ok reiðgóðan ok mikinn vexti. Ok er liðinn var miðr morginn, þá bjóða förunautar þeira at taka hesta. Nú rísa þeir upp ok fara at hrossum. Hestr Þorgeirs fannz ekki. Þeir fóro at leita hestsins; því at þar voro miklir skógar um alla hlíðina. Svá lýkr, at hestrinn finnz ekki; taka þeir þá einn klyfjahest ok skipta klyfjum á fleiri hesta; Þorgeiri er þá fenginn sá hestr; geta þá at líta, hvar einn maðr ríðr rauðum hesti, reiðgóðum, ok rekr sauði nokkura firir sèr upp eptir eyrunum frá Sauðafelli; hann eltir hart sauðina — því at hann hafði skjótan hest. Þorgeiri sýniz þessi hestr vera glíkr sínum hesti. Nú lætr hann sem hann viti ekki —

hefir af augabragð, hvert maðrinn ríðr, ok sèr hann, hvar maðrinn eltir sauðina til bæjarins í Hundadal. Skúfi höfðu goldnar verit ær nokkurar vestan ór Laxárdal, ok höfðu þær gengit í brott, ok fór Bjarni, son Skúfs, at leita ánna, ok hafði hann tekit hest Þorgeirs. Nú ríðr flokkrinn til bæjarins í Hundadal; ok bjóða þeir bræðr förunautum sínum, at þeir taki af hestum sínum utangarz ok láti ekki hrossin ganga í túnit; en þeir bræðr riðu til húss með fá menn. Þorgeirr reið til kvíanna þar sem hann þóttiz kenna hest sinn. Skúfr er þá heim kominn, ok rak sauðinn í kvína. Bjarni sitr á hestinum, ok hefir þá rekit ærnar í kvína, þer sem hann hafði fundit. Þorgeirr spyrr: „Hverr er þessi maðr, er hèr sitr á hestbaki?" „Sá heitir Bjarni." Þorgeirr segir: „Þú hefir vænligan hest; eða hverr á hestinn?" Bjarni svarar: „Sannspurt er þat, at hestrinn er vænligr; en þat veit ek ekki, hverr hann á". Þorgeirr segir: „Firir hví tóktu hestinn?" Bjarni svarar: „Því tók ek hestinn, at mèr þótti betra at ríða en ganga". Þorgeirr mælti: „Þat sýniz mèr nú ráð, at þu stígir af baki ok látir hestinn koma í hendr eiganda". Bjarni mælti: „Ek mun nú litlu við auka um reiðina; því at ek mun ekki leingra ríða, en heim til dyra". Þorgeirr mælti: „Þat vil ek, at þú stígir nú þegar af baki". Bjarni svarar: „Ekki mun hestinn skaða, þótt ek ríða heim til húss". Þorgeirr mælti: „Ek vil þessu ráða, at þú ríðir eigi leingra at sinni". Bjarni vill snúa hestinum heim til garzhliðsins ok ríða heim til húss. En Þorgeirr leggr spjótinu til hans ok þegar í gegnum, svá at hann fjell þegar dauðr af baki. Skúfr sauðamaðr sá, at Bjarni fjell af baki. Hann hleypr ór kvíadyrunum, þar sem hann var at byrgja kvíadyrrnar; hann tekr exi sína ok höggr til Þorgeirs tveim höndum. Þorgeirr laust við spjótskapti sínu við högginu ok bar af sèr, en hann hjó

til Skúfs enni hægri hendi með exinni í höfuðit ok klauf hann í herðar niðr, ok dó hann þegar. Förunautar Þorgeirs fara heim skyndiliga ok segja höfðingjum tíðendin. Þeim þótti þetta ill tíðendi vera, sem þau voro. Fá þeir þegar menn til at fylgja Þorgeiri í brott, at hann gengi ekki í augsýn föður ens vegna eða frændum þeira er vegnir voro. Eptir þat sögðu þeir Skúfi tíðendin. Þá sá hann sèr engan sóma sýnna, en þiggja sjáldfæmi þau, er þeir bræðr buðu firir vígin, ok fjebætr firir menn sína, at svá göfgum mönnum, sem þeir bræðr voro, allra helzt er sá var sekr, er vígin hafði vegit. Nú sættaz þeir at svá mæltu. Þessa víga getr Þormóðr í Þorgeirsdrápu:

Kapp lèt höldr (at heppni
hríð gerðiz þá sverða:
hrátt gat hrafn at slíta
hold) Más syni goldit.
Enn var vágs at vígi
vigg-ríðandi síðan
(hann bar greipr at gunni
gjarna) Skúfs ok Bjarna.

Þeir Þorgils ok Illugi átu dögurð í Hundadal, ok eptir þat riðu þeir suðr til Borgarfjarðar ok fylgdu Þorgeiri til skips. Sá maðr var til skips kominn, er Gautr hèt; hann var son Sleitu; hann var náinn at frændsemi Þorgilsi Márs syni, er Þorgeirr hafði vegit. Gautr var mikill vexti ok sterkr at afli, ódæll ok harðfeingr. Hann hafði sèr fari tekit af stýrimanni, ok vissi engvar vánir til þess, at Þorgeirr ætlaði þar utan at fara. Hann færði brún á nef við kvámu Þorgeirs; ok sýndiz þeim nakkvat vandræði vera, at þeir sje samskipa, við þat skaplyndi, sem hvárr þeira hafði. Skip var albúit ok bundinn búlki ok vara Gauts komin í búlka. Nú er Þorgeirr heyrði gnadd austmanna um návistu

þeira Gauts, þá mælti hann: „Vel má ek nýta at vera samskipa við Gaut, hversu síða brún sem hann setr". En hvat sem Þorgeirr ræddi um samvist þeira, þá var þat ráð tekit, at brotinn var upp búlkinn ok vara Gauts á brott borin. Reið hann þá norðr til hèraða. Austmenn leggja skipi sínu ofan eptir ánni ok út til Seljaeyrar. Þeir bræðr ríða ekki fyrr ór hèraði, en skipit ljet út ok í haf. Síðan riðu þeir til þings með miklu fjölmenni ok sættuz firir hönd Þorgeirs á víg Þorgils Márs sonar; færa framm sýknu hans. Þorgeir ok hans fèlaga velkti úti í hafi nokkura hríð, sjá at lyktum land firir stafni, ok kenna austmenn landit, ok er þat Írland. Sýniz þeim ósýnn friðrinn, ef þá rekr þar. Þorgeirr mælti: „Þat er sýnna, ef vèr verjumz vel, at vèr fáim nokkurum mönnum ærinn náttverð, áðr vèr erum drepnir, ok er þá hæft nokkut í várri vörn". Nú kasta þeir akkerum, ekki allnærr landi, ok brjóta upp vápn sín, ok búaz þeir til bardaga, ef þess þyrfti við. Síðan sjá þeir fjölmenni mikit á land upp ok mörg spjót sem á skóg sæi. Þó at Írar hefði háskept spjót, þá tóku þau þó ekki til þeira. Nú halda þeir fje sínu ok fjörvi ok sigldu á brott þá er þeim gaf byri. Þeir fóro þaðan til Englands ok voro þar um hríð, ok hefir Þormóðr svá um ort, at Þorgeirr þægi þar góðar gjafir af höfðingjum. Eptir þat fór hann til Danmerkr, ok fjekk þar svá mikla virðing, at Danir tignuðu hann nerr sem konung, at því sem Þormóðr hefir um ort. Síðan fór hann til Noregs ok á fund Ólafs konungs ens helga ok gengr firir hann ok kvaddi hann vel. Konungr tók vel kveðju hans, ok spurði, hverr hann veri. Hann svarar: „Ek er íslenzkr maðr ok heiti ek Þorgeirr". Konungr mælti: „Hvárt ertu Þorgeirr Háfars son?" Hann svarar: „Sá er maðr enn sami". Konungr segir: „Heyrt hefi ek þín getið. Þú ert mikill maðr vexti ok dreingiligr í ásjánu

ok hrundu þar í ofan höfðinu ok grófu á ofan torf. Slèttukarlar ruddu kaupskipit ok fluttu til lands ok jörðuðu þar í höfninni allra manna lík þeira er þar höfðu fallit á skipi ok á landi — því þeir nenntu ekki til kirkju at færa líkin; því at í þenna tíma voro engvar kirkjur í nánd höfninni. Kálfr ok Steinólfr voro ór fjötrum leystir eptir bardagann, ok ruddu þeir til líkagraptarins við Slèttukarla. Þeir varðveittu varning þann er á skipinu var, þar til er Illugi kom til skips. Nú þó at kristni veri ung í þenna tíma hèr á landi, þá var þar þó ekki siðr til þess, at taka fè veginna manna. Illugi fór utan þat sumar norðr á Slèttu. Þormóðr kolbrúnarskáld undi löngum illa eptir líflát Þorgeirs, ok þat sumar fór hann utan í Vaðli. Eyjólfr í Ólafsdal ok Þorgeirr hófleysa fóstbróðir hans fóro utan í Grímsárósi. Þat skip kom í ey þá er Lafon heitir. Þormóðr kolbrúnarskáld fór á fund Ólafs konungs ens helga. Þormóðr kvaddi konunginn, ok tók konungr vel kveðju hans, ok spurði, hvat manna hann veri eða hvers son hann veri. Þormóðr svarar: „Ek er íslenzkr maðr, ok heiti ek Þormóðr, en Bersi heitir faðir minn". Konungr mælti: „Hvárt ertu kallaðr Þormóðr kolbrúnarskáld ok ert svarabróðir Þorgeirs Hávars sonar?" „Já" segir Þormóðr; „sá er maðr enn sami". Konungr mælti: „Njóta skaltu hans frá oss, ok vel ertu hèr kominn; ok víst máttu vita þat, at ek tel mèr misboðit í vígi Þorgeirs hirðmanns míns, ok þökk kynna ek þess, at hans yrði hefnt". Þá kvað Þormóðr vísu:

þarꝼ ſa er þ⁊ ſť hvꝼ̍a
þengıll ꝼ⁊ kne lengı
ſuaraðu hoglıga hv⁊ıu
hugboꝛðz ꝁr orðı

ꝼair erū vꝰ ne ꝼreẏia
ꝼrænðr vorum vꝰ vænðꝰ
mīnūz meiʀ̇ en̄ an̄at
mitt starꝼ k̄g ðiarꝼan

Konungr mælti: „Gaman man vera at skáldskap þínum". Þormóðr gerðiz þá hirðmaðr Ólafs konungs. Þat skip kom um sumarit til Noregs, er var af Grænlandi. Því skipi stýrði sá maðr, er Skúmr hèt. Hann var grænlenzkr maðr at kyni; farmaðr mikill ok vitr maðr ok vinsæll. Hann var vinr Ólafs konungs ok honum handgenginn. Skúmr fór til hirðar konungs, ok var þar um vetrinn. Þann vetr voro þeir í Noregi — Illugi Ara son, Steinólfr ok Kálfr, Eyjólfr ok Þorgeirr hófleysa. Um várit eptir, er einn vetr var liðinn frá falli Þorgeirs Hávars sonar — Þorgils Ara son ok Ari son hans bjuggu til mál á hönd Þórarni, um víg Þorgeirs, ok öðrum mönnum þeim sem at víginu höfðu verit; gerðu mikinn reka at þeim verkum, er þar voro ger. Á þau mál var sæzt á þingi, ok gerði Þorgils um málin öll tvau hundruð silfrs, ok gulduz þar á þinginu um víg Þorgeirs, ok hafði Guðmundr enn ríki hundrað at ráði Þorgils. Þat sumar var Þórarinn veginn á manna móti í Eyjafirði. Á því sumri fóro þeir Kálfr ok Steinólfr út til Íslands. Þeir komu út í Vaðli á Barðaströnd ok fóro heim í Garpsdal til búss síns. Eyjólfr ok Þorgeirr hófleysa keyptu skip í Noregi ok hèldu því til Íslands þá er þeir voro búnir. Þá velkti lengi úti ok komu síð um haustit á Borgarfjörð. Ok er þeir komu þar, þá skildi þá á um landtöku: vildi Eyjólfr halda skipinu til Straumfjarðar — því at þangat var byrr; en Þorgeirr hófleysa vildi halda skipinu til rjettar, ok vita, ef byr gæfi firir jökulinn, ok vildu halda skipinu í Dögurðarnes. Þá var gengit til siglu, ok eptir leitað, hvárir fleiri veri skipverjar, þeir er sigla vildu, eða

hinir er í rètt vildu leggja skipit. En firir því at mönnum hafði leizt í hafinu, þá voro þeir fleiri, er sigla vildu til lands. Þeir fóstbræðr voro svá reiðir, at þeir tóku til vápna: en menn gættu þeira, svá at ekki varð at. Þeir tóku Straumfjörð. Ok þegar er skipit var landfast orðit, þá fekk Þorgeirr hófleysa sèr hest, ok reið hann frá skipi ok fór til þess er hann kom vestr í Garpsdal. Hann tók sèr vist með þeim bræðrum, Steinólfi ok Kálfi. Eyjólfr var við skip þar til er hann hafði um skip búit; fór þá heim í Ólafsdal til móður sinnar ok var með henni um vetrinn.

19. Spákerling sú, er fyrr var getið, tók sótt um vetrinn ok lá lengi. Hón andaðiz næstu nótt epter pálmsunnudag. Lík hennar var flutt á skipi til Reykjaness; því at engi kirkja var nærri Ólafsdal, en sú er á Hólum var. Eyjólfr ok húskarlar hans fluttu lík spákerlingar til kirkju. Ok er líkit var niðr sett, vesnaði veðrit: gerði kófviðri ok frostviðri — lagði fjörðinn út langt, ok mátti ekki skipum koma út til dalsins. Þorgils mælti þá til Eyjólfs: „Þat sýniz mèr ráð, at þú farir ekki fyrr heim, en liðin er páskavika; mun ek þá fá þèr menn með skip þitt heim, ef þá má komaz firir ísum; en ef þá er ekki með skip fært, þá mun ek ljá þèr hest heim at ríða; en ef nauðsyn berr til, þá megu húskarlar þínir fara heim firir, ef þú vill". Eyjólfr svarar: „Þetta þitt boð mun ek þiggja". Nú fóro húskarlar Eyjólfs heim, ok gengu þeir it innra um Króksfjörð. Eyjólfr var á Hólum þar til er leið páskavika mjök. Fimmta dag í páskaviku segir Eyjólfr Þorgisli, at hann vill heim fara. Þorgils sagði svá vera skyldu sem hann vildi. Þá lætr Þorgils búa honum hest skúaðan til ferðar, ok býðr honum mann til föruneytis, ef hann þurfti. Hann kvez einn saman ríða vilja. Nú ríðr hann utan af Reykjanesi ok inn um Berufjörð ok Króksfjörð. Ok er hann átti skammt utan til

Garpsdals, þá voro þeir Kálfr ok Steinólfr úti staddir undir einum húsvegg ok töluðuz við; ok þá geta þeir at líta, hvar menn gengu utan eptir vellinum; þeir þóttuz kenna mennina ok sýndiz þar vera Þorgeirr Hávars son ok þeir 9 menn er þar fèllu á skipinu með Þorgeiri — voro allir alblóðugir ok gengu inn eptir vellinum ok ór garði; ok er þeir komu at á þeiri, er fellr firir innan bæinn, þá hurfu þeir. Þeim bræðrum varð ósvift við þessa sýn; ganga þeir inn í skálann. Önundr hèt nautamaðr í Garpsdal. Hann gengr út ór fjósi, ok sjer, hvar maðr ríðr utan eptir vellinum, allvænum hesti; sá maðr var gyrðr sverði, ok hefir spjót í hendi, hjálm á höfði; ok er hann nálgaðiz bæinn, þá kennir hann manninn, ok var þar Eyjólfr. Önundr gengr til stufu, ok er þar fátt manna. Þar var Þorgeirr hófleysa ok konur nokkurar. Önundr tekr til orða: „Nú ríðr Eyjólfr hèr um garð". Ok er Þorgeirr heyrði þessa sögn, hljóp hann út ok tók spjót í hönd sèr. Þá var Eyjólfr kominn á innanverðan völlinn. Þorgeirr hljóp eptir honum. En Eyjólfr reið leið sína, ok sèr ekki, er maðrinn rennir eptir honum. Hann kom at Garpsdalsá; hón var upp gengin ok leitaðiz hann firir. Þorgeirr kallar á hann, at hann skuli bíða hans, ef hann þyrði. Eyjólfr heyrir kallit, ok lítr við, ok sèr, hvar Þorgeirr hleypr. Eyjólfr hleypr af baki ok rennr í mót honum. Ok er þeir finnaz, leggr hvárr þeira í gegnum annan ok falla jamsnemma. Nú kom þat þar framm, er spákerling hafði firir sagt. Þeir bræðr gengu til stufu, þá er af þeim leið þat úmegin, er yfir þá hafði liðit. „Hvar er Þorgeirr?" segja þeir. Þeim var sagt, at hann hefði út gengit ok tekit spjót í hönd sèr, þá er Önundr nautamaðr sagði för Eyjólfs. Þeir bræðr gengu út snúðigt, ok inn ór garði, til árinnar; ok voro þeir þá fallnir, en ekki erendir. Sátu

þeir bræðr þar yfir þeim til þess er þeir voro erendir, ok síðan færa þeir lík þeira til kirkju.

20. Þá er Þormóðr kolbrúnarskáld hafði verit einn vetr með Ólafi konungi, þá bjó Skúmr skip sitt til Grenlands. Þormóðr gengr þá firir konunginn, ok mælti: „Þat vilda ek, konungr, at þú leyfðir mèr at fara til Grenlands í sumar með Skúmi". Konungr mælti: „Hvert erendi áttu til Grenlands? hvárt ætlar þú at hefna Þorgeirs svarabróður þíns?" Þormóðr svarar: „Ekki veit ek, hvers auðit verðr um þat". Konungr mælti: „Ekki mun ek banna þèr förina; því at ek þikjumz vita, hvat þú vill". Nú skilja þeir talit. Þormóðr tók sèr fari með Skúmi. Ok er þeir voro mjök búnir, þá fara þeir á konungs fund ok þakka alla vingan þá er hann hafði þeim veitt. Konungr bað þá vel fara. Konungr gaf Þormóði gullhring ok sverð þá er þeir skildu. Ganga þeir Skúmr á skip út. Ok er þeir voro komnir á skip, þá gengr maðr út á skipsbryggjuna: sá hefir síðan hatt — mikill maðr vexti, herðibreiðr ok þykkr — ok máttu þeir ekki sjá hans ásjánu. Sá maðr kvaddi Skúm. Hann tók kveðju hans, ok spurði hann at nafni. Hann kvaz Gestr heita. Skúmr mælti: „Hvar er kyn þitt?" Gestr mælti: „Víða stendr kyn mitt fótum. En þat er erendi mitt hingat, at ek vil vita, ef þú vill veita mèr far til Grenlands í sumar?" Skúmr svarar: „Ókunnigr ertu mèr, ok mun ek vita við skipverja mína, hvat þeim sýniz ráð, hvárt ek taka við þèr eða ekki". Gestr mælti: „Þat ætlaða ek, at stýrimaðr ætti at ráða skipi, en ekki hásetar; ok er þat líkaz, at ek vinna hlutverk mín at mínum hluta, svá at ekki munu hásetar þínir þurfa at vinna firir mik". Nú lýkr svá þeira tali, at Skúmr hèt farinu. Gengr Gestr upp í bæinn, ok kemr aptr litlu síðarr, með mikla byrði ok þunga, svá at varla máttu 2 menn upp taka. Gestr tók sèr rúm aptr á búlkabrún.

Hann átti fátt við aðra menn ok lèt fátt til sín taka. Skúmr lèt þá í haf. Þeir fengu stór áföll ok hvöss veðr. Því liðbetri var Gestr, er meirr kom í raun um. Svá sýndiz mörgum mönnum, sem Gestr mundi hafa 2 manna megn í sínum tiltökum. Heldr stóz allt * * * * * * * * * * * * * *

---

# II.

* * * * * * * * * * * * * * * * * * *

* * * * * * * * * * * * * * * * * * *

kenningarnafn, at þú skalt kolbrúnarskáld heita. Þormóðr þakkaði Kötlu gjöfina; ok síðan festiz þat nafn við Þormóð, sem Katla gaf honum. Húskarlar Bersa komu þar er þeir fóro utan ór víkinni, ok gekk Þormóðr á skip með þeim ok þakkaði húsfreyju sinn velgerning, ok skilðuz þau vinir. Fór Þormóðr heim til föður síns ok var heima um sumarið. En er ísa lagði ok vetra tók, þá minntiz hann þers vinskapar, er honum hafði verið við Þórdísi í Ögri, ok gengr einn dag í Ögur; ok Gríma fagnaði honum blíðlega, en Þórdís skaut nokkot öxl við honum. Þormóðr setz niðr hjá Þórdísi ok minnir hana á eð forna vinfengi þeira. Þórdís mælti: „Ek hefir spurt, at þú hefir fengit þèr nú nýja unnustu, ok ort um þá lofkvæði, Þorbjörgu kolbrún. út í Arnardal". Þormóðr svarar: „Ekki er þat satt, at ek hafa um hana ort—hitt er satt, at ek hefir ort um þig lofkvæði, þá er ek var í Arnardal; því at mèr kom í hug, hversu langt millim var vænleiks þíns ok Þorbjargar. Em ek því nú hèr kominn at fœra þèr kvæðit". Þormóðr kvað þá Kolbrúnarvísur ok snýr þeim erindum til lofs Þórdísi, er mest voro ákveðin orð áðr um Þorbjörgu. Gefr nú Þormóðr þetta

kvæði Þórdísi til heils hugar ok ástar, ok tekz nú upp með þeim ný vinátta. Kemr Þormóðr nú jamnan í Ögur, ok er honum þar vel fagnað. Ok er svá hafði fram farið um stund, þá dreymði Þormóð eina nótt, er hann var á Laugabóli, at Þorbjörg kom at honum, og spurði, hvárt hann vekti eða svæfi. Hann sagðiz vaka. Hón svaraði: „Þú sefr; en þat er fyri þig berr man svá eftir ganga sem þú vakir —eða hefir þú gefit lofkvæðit, þat er þú ortir um mik, annarri konu?" Þormóðr svarar: „Ekki er þat satt". Þorbjörg mælti: „Satt er þat víst. Þú hefir mitt lofkvæði gefit Þórdísi Grímu dóttor ok snúið til hennar öllum þeim vísum, er mest heyrðu mèr til. Nú mun ek launa þèr lausyrði þína og lygi, svá at þú munt taka augnaverk þann er bæði þín augu skulu út springa, nema þú lýsir því fyri alþýðu, at þat er mitt kvæði, ok kaller þat svá jamnan síðan". Honum sýndiz hón mjök reiðuleg ok þikkir hann sjá svip hennar, er hón gekk brott. Hann vaknar við þat, at hann hafði svá mikinn augnaverk, at hann fær valla þolað úæpandi. Hann lá lengi um morgoninn. En er allir menn eru klæddir, þá undrar Bersi, er Þormóðr liggr svá lengi, ok gengr til Þormóðar ok spur, ef hann væri sjúkr. Þormóðr segir, at honum var illt í augum. Bersi mælti: „Ekki er sá heill, er í augun verkir". Þá kvað Þormóðr vísu:

Illa rèð ek því, at allar
(eydraupnis) gaf ek meyju
(mèr barst dóms í drauma
dís) Kolbrúnar vísur.
Þá tók ek þorna freyju
(þrúðr kann mart en prúða;
líknumz ek heldr við hildi
hvítings) á mèr víti.

Bersi spurði: „Hvat hefir þig dreymt?" Þormóðr segir

honum drauminn ok allan málavöxtinn. Bersi mælti: „Úþarflegar unnustur áttu — lautz af annarri örkyml þau er þú verðr varla heill; en nú ekki minni von, at þú látir bœði augun fyri annarri. En þó ræð ek, at þú snú aptr kvæðinu svá sem var ort fyri andverðu". Síðan lýsir Þormóðr fyri alþýðu, hversu farið hafði, ok gefr Þorbjörgu kvæðit af nýju við mörg vitni. En Þormóði batnaði þegar augnaverks ok varð alheill.

2. Nú er að segja af Þorgeiri Hávars syni. Þat var eitt sumar, er hann kom skipi sínu í Hvítá ok hèlt síðan upp í Gljúfrá. Hann var um vetrinn á Reykjahólum. En snemma um várið fór hann til skips ok bjóz. En litlu fyri þing fór hann vestr eftir vöro sinni ok flytr hana til Skógarstrandar ok fær sèr þar hesta — ferr suðr yfir heiði, ok einn maðr með honum, er reið fyri ok hafði klyfjahest í taume. Þorgeirr reið eptir ok rak klyfjahestana. Hann reið með skjöld og spjót, hjálm ok exi. Sá maðr bjó á Hvítstöðum, er Snorri hèt ok var kallaðr Hekil-Snorri. Hann var mikill maðr ok sterkr, ljótr ok grimmligr, illr ok harðfengr. Helgi hèt sun hans. Mannahúsin voro þá neðarr í túninu en nú eru, ok var þá bœrinn á Mel kallaðr. Lambahús stóðu vestr í túnið; þat eru nú Snorratuptir kallaðar. Þorgeirr ferr þar hjá garði, ok ríðr förunautr hans um bœinn fram; en klyfjahestar þeir, er Þorgeirr rak, lupu í túnið. Snorri kemr út við þat er Þorgeirr eltir hestana ok vill reka þá ór túninu. Hestunum þótti þar gott beiti, ok stóð sá jamnan, er hann reið ekki að. Snorri gengr inn ok tekr mikit krókaspjót, leypr út ok bannar hestunum ok svá Þorgeiri, berr hestana með spjótinu ok særir. Þorgeiri þikkir ekki minni von, at hann drepi hestana. Þorgeirr leypr þá af baki ok hefir skjöldinn fyri sèr ok heldr þar með vinstri hendi exinni, en hefir spjótið í hœgri hendi ok sœkir at

Snorra; en hann verr sig með spjótinu ok hopar undan til lambahússins. Tveir húskarlar Snorra sá, at hann greip spjótið ok ljóp út reiðr; ok tekr sína exi hvárr í hönd sèr ok fara til dugnaðar við Snorra. Þorgeirr verst þeim mjúklega, en sœkir með miklu afli, ok verða húskallar brátt sárir af Þorgeiri; því at þeir höfðu skammskeptar exar. Snorri rökk inn undan í löðu. Dyrrnar voro lágar á löðunni ok var þar illt inn að sœkja eftir þeim. Hann leypr þá upp á húsið ok rýfr; en Snorri leggr þar út sem raufz húsið, ok varð Þorgeirr þar af nokkot sárr; en um síðir gat hann höggit spjótið af skapti, ok þegar í stað leypr hann inn í þann glugg sem hann hafði á rofit ok hjó exinni í höfuð Snorra ok klauf allan hausinn. Síðan sœkir hann grimmlega at húskörlunum, ok lauk svá, at hann drap þá alla. Síðan gengr hann út, ok stígr á hest sinn, ok ríðr til dura, ok segir mönnum, at „Hækils-Snorri ok húskarlar hans bíða yðar í lambahúsi sínu ok vill finna yðr". Síðan ríðr hann brott. Förunautr hans rak ·ór hestana ór túni, meðan þeir börðuz. Síðan ferr hann til skips ok býz ok siglir í haf; byrjar honum vel—tekr Noreg og ferr á fund Ólafs konungs ok er með honum þann vetr. — Svá segir Þormóðr í Þorgeirsdrápu:

Hús braut snarr til Snorra
sverðrjóðr, ok styr gerði,
hinn er heiftir manna,
Hækils sunar, rækir.
Varð eggjaðr þar þriggja
Þorgeirr á hvöt meiri
(leygs hefi ek slíkt frá sœki
sannspurt) bani manna. —

Helgi sun Snorra bjó lengi síðan á Hvítstöðum. Hann var úlíkr föður sínum bœði at ásjón ok skaplyndi. Hann fœrði

húsin þangat sem nú er bœrinn. Hann var Helgi enn hvíti kallaðr, ok er við hann bœrinn kenndr á Hvítstöðum. Hann deildi um Gufufit við Þorstein Egils sun: Helgi vildi ekki selja fitina, en Þorsteinn vildi kaupa. Einn vetr fór Helgi eftir hey á Gufufit ok ekr heim heynu með yxnum, sem hann var vanr, sunnan um mýrar. Þorsteinn fór eftir þeim með sína menn. Þeir funduz í ey þeiri, er liggr í Langá suðr frá Hvítstöðum. Þar fèllu nokkorir menn, en Helgi varð sárr. Þá komu til vinir þeira ok sættu þá. Keypti þá Þorsteinn Gufufitjar, en bœtti áverka Helga.

3. Þórer hèt maðr, er bjó at Rofá í Steingrímsfirði. Hann var harðr maðr ok illgjarn. Hann varð missáttr við hirðmann Ólafs konungs þann er Þorfinnr hèt, ok særði hann; ok bœtti hann engu fyri. En er konungr frá þat, þá mislíkar hánum þat mjök, ok kallar til sín Þorgeir Hávars sun, ok mælti: „Þat vil ek, at þú hefnir þers áverka, er Þorfinnr hirðmaðr minn fekk á Íslandi — ok lögunautr þinn —, ok leiðir svá Íslendingum at skemma hirð mína". Þorgeirr svarar: „Þat skal ek gjarna gera". Býr hann síðan skip sitt til Íslands. Honum byrjaði vel, ok kemr skipi sínu í Vaðil. Hann ferr heim á Reykjahóla. Sá maðr var þar smiðr, er Vegglagr hèt. Þeir gerðu þar skála um vetrinn, ok gerði sínvegar hvárr þeira; hann er 19 álna ok 40 álna langr; hann stóð enn, er Árni biskup enn síðarri var vígðr til Skálaholts; hann er þiliðr um endilangt. Þorgeirr fór um vetrinn norðr í Steingrímsfjörð til Rofár, ok með honum Vegglagr smiðr. Þeir komu þar síð um kveld ok drápu á dyrr. Kona ein gekk út, ok spurði þá at nafni. Þorgeirr segir eð sanna til nafns þeira. Hann spurði, hvárt Þórir væri heima. Hón segir hann heima vera. Þorgeirr mælti: „Bið hann ganga út." Hón gengr inn, ok segir Þóri, hverir menn eru komnir,

ok þeir vilja hann finna. Þórir tekr spjót í hönd sèr ok gengr út í dyrrnar ok setr spjóts-oddinn í þreskeldinn ok heilsar þeim er komnir voro. Þorgeirr tók ekki kveðju hans, ok mælti: „Þat er erindi mitt hingat, at ek vil vita, hverja sœmd þú vilt gera Ólafi konungi fyri þat er þú særðir hirðmann hans". Þórir svarar: „Ertú nokkot rèttr sœkjandi þersa máls?" Þorgeirr svarar: „Fyri þat man ganga; því at ek hefir konungs umboð hèr til". Þórir svarar: „Vera má, at þú hafir konungs umboð; en varla þikki mèr sem ek heyra konungs orð, þó at þú talir eitthvat". Þeir talaz við nokkorum orðum. Ok er minnz var von, þá leypr Þorgeirr at Þóri ok leggr spjótinu í gegnum hann. Lètz Þórir þegar; en Þorgeirr fór brott ok heim á Reykjahóla. Svá segir Þormóðr:

Ár man ek þegn, hinn er Þóri,
þarfs fagrgala arfa,
hlýra hrafns, með geiri
happauðigr rèð dauða.
Dýrr hefndi svá sára
(slíkt fór allt af ríki)
Odds, ok ernir södduz,
jóstýrandi hlýra.

Vetr þann voro stulðir miklir á Reykjahólum, ok hurfu mönnum gripir ór kistum ok ór hvers manns hirzlu hvarf nokkot—aldri var svá rammlega læst; en þó voro lásarnir heiler. En eftir jól um vetrinn kalla þeir Þorgils ok Illugi hjún sín saman, ok mælti Þorgils: „Þat er yðr kunnigt, at hèr hafa verið miklir stulðir í vetr; ok skal nú hefja rannsak, ok fyrst með okkr brœðrum ok Þorgeiri, en eftir þat aðra heimamenn hèr; en ef ekki finnz hèr, þá skal fara á aðra bœi ok rannsaka". Ok er rannsakaðar voro hirðslur manna, þá fannz ekki þat er stolið var. Vegglagr smiðr

álti eina mikla kistu; hón var ekki rannsakað. Þorgils bað hann upp láta sína kistu. Vegglagr svarar: „Aldri var ek enn rannsakaðr sem þjófr, ok man ek ekki upp láta". Þorgils mælti: „Þetta er ekki til eins manns leikr gerr; því at várar kistur hafa fyst verið rannsakaðar; ok má þèr þat er yfir margan gengr". Vegglagr vildi ekki upp láta at heldr. Illugi ljóp þá til, ok hjó upp kistuna, ok mælti: „Ek hefir konungs-lykil að varðveita, þeim er at öllum lásum gengr". Þar finnr Illugi í marga lykla ok marga þá gripi, er stolnir voro um vetrinn; ok þó at ekki veri þar í allir þeir gripir, er menn misstu, þá var Vegglagr píndr til sagna. Gekk hann þá við, at hann hafði öllu því stolið. Illugi mælti: „Úlífismaðr er Vegglagr; ok er þat mitt ráð, at hann sè hengðr". Þorgeirr mælti: „Ekki mantu svá vilja skilja við smið þinn ok heimamann". Illugi mælti: „Ekki sýniz mèr, at svá mikill þjófr gangi undan". Þorgeirr mælti: „Hvat sem þèr sýniz ráð hèr um, þá mun hann dýrkeyptr verða at sinni, ef ek má ráða". Illugi mælti: „Illt mantu í móti taka af honum, þó at þú leggir svá mikit kapp á at fylgja honum; en ekki mantu jamnan fyri honum standa, þó at nú gangi hann undan. En útlægr skal hann vera af Reykjanesi". Þorgeirr lætr þá fylgja honum vestr á Laugaból, til þeira Bersa ok Þormóðar, ok biðr þá láta hann þar vera um vetrinn ok fylgja honum að sumri til skips í Vaðil. Þeir gerðu þat sakir Þorgeirs, at þeir tóku við Vegglagi. En um várið fór Vegglagr til skips, ok tók Þorgeirr við honum ok flutti hann utan. Þeir komu við Orkneyjar. Þá var Þorfinnr jall ok Brúsi jall bróðir hans búinn í herferð til Skotlands; ok selr þá Þorgeirr skipit ok ræz í lið með Brúsa jarli. En Vegglagr fór upp á Skotland ok varð þar um síðir hengðr fyri þjófnað. Með Brúsa jarli var þá Rögnvaldr sun hans, ok var Þorgeirr

með honum, ok fengu þeir sigr hvar sem þeir fóro, ok varð Þorgeirr mjök frægr af sínum hernaði — því at hann var æ því vaskari sem meiri raun var at. Svá segir Þormóðr:

Njörðr gekk á ske skorðu
skeleggr (enn þat teljum)
hjaldrs at herja vildum
hjörgaldrs með Rögnvaldi.
Lítt sparði fjör fyrða
fremðar mildr at hildi
(drengs varð dáð at lengri)
djarfr Hávarar arfi.

Síð um haustið fór Þorgeirr til Noregs ok þá áðr góðar gjafir af jörlunum, ok var hann með Ólafi konungi um vetrinn, ok hafði af honum mikla sœmð fyri þat er hann hafði drepit Þóri ok hefnt Bergfinns. Illugi Ara sun var ok þann vetr með Ólafi konungi, ok bjó hann um várið skip sitt til Íslands. Þorgeirr bauð at fara með honum. Illugi svarar: „Úráðlegt þikki mèr, at þú farir til Íslands; áttu þangat fás góðs at vitja — en þú ert hèr vel kominn með konungi —; hefir þú þar unnit mörg stórvirki, ok áttu þar í flestum stöðum illa fritt; mantu á íslandi minna gott upp taka, en hèr hvern dag”. Þorgeirr mælti: „Má, at ek komumz þó til Íslands, at þú flytìr mik eigi”. Illugi býr skip sitt ok lætr í haf. Ok þegar hann er brottu, þá gengr Þorgeirr fyri konung ok biðr sèr orlofs til Íslands. Konungr svarar: „Minni mannheill hefir þú á Íslandi en með ors, ok meira sóma veitu vèr þèr en Íslendingar”. Þorgeirr bað því fastara. En konungr dró heldr undan. Ok um síðir mælti konungr: „Nú man þat fram koma, er ek sagða fyrsta tíma er ek sá þig, at þú mundir ekki vera at fullu gjæfumaðr. Nú man ek gefa þèr orlof til Íslands eð síðasta sinn; því at vit munum ekki optarr sjáz,

ef vit skiljumz nú". Þorgeirr mælti: „Guð þakki yðr orlofit; en á yðarn fund ætla ek þegar at sumri". Konungr mælti: „Ætla mantu, en koma ekki". Ferr Þorgeirr til Íslands með þeim manne, er Jókell hèt. Þeir koma skipi sínu í Vaðil, ok var Þorgeirr á Reykjahólum um vetrinn. En Illugi kom sínu skipi í Raunhöfn á Melrakkaslèttu, ok setti hann þar upp skip sitt ok fór síðan norðan ok ætlaði heim á Reykjahóla. Gautr Sleitu sun, er fyrr var getið, kom til Illuga ok tók af honum far til Norex. Í Miðfirði kom sá maðr til hans, er Helgi selseista hèt; hann mátti meira laupa en nokkorr hestr; hann tók ok far af Illuga til Norex, með þeim hætti, at hann skyldi koma til hans at vári ok flytja vöro hans með honum. Ferr síðan Illugi heim á Reykjahóla ok var þar um vetrinn.

4. Tveir brœðr bjoggu í Garpsdal: hèt annarr Kálfr, en annarr Steinólfr. Þeir voro ríkir menn ok vinsælir. Þórdís hèt kona, er bjó í Ólafsdal. Hón átti sun, er Eyjúlfr hèt. Þorgeirr hèt frændi hans; hann hafði Þórdís upp fœtt ok fóstrað; hann var kallaðr hóflausa — því at hann hafði til hversvetna meira en hann þurfti. Þeir voro fóstbrœðr Eyjúlfr ok Þorgeirr, ok var með þeim mikil vinátta. Ein framfœrslukerling var með Þórdísi húspreyju. Þeir voro mjök glennsmikler; en kerling angraðiz mjök við þat; en þeir ertu hana því meirr, sem hón var angráðari. Einu dag þá er þeir glennsuðu hjá kerlingu ok stè annarr þeira á fót henni, þá varð kerling reið, ok mælti: „Lítil sœmd er ykkr í því at troða mik með fótum. En svá vel sem nú semr ykkr, þá munu þit 2 fóstbrœðr verst skilja ykkað vinfengi á Íslandi". Þeir svöruðu: „Mjök ertu úspáleg, kerling!" Hón varar: „Þetta man þó eftir ganga, sem nú mæli ek". — En er váraði, þá sendir Illugi varning sinn til skips. Þá skyldi ok fara utan með honum Þorgeirr

Hávars sun ok þeir brœðr í Garpsdal Kálfr ok Steinólfr; ok fóro þeir Þorgeirr norðr fyri, at búa skipit; en Illugi reið til þings. Ok er þeir komu í Raunhöfn, settu þeir fram skipið. Þar var þá Helgi selseista. Gautr Sleitu sun var til skips kominn ok var eigi í mötuneyti með Þorgeiri. Þar var illt til eldiviðar, ok fóro sinn dag hvárir at afla eldiviðar. Einn dag fór Þorgeirr ok hans kumpánar, en Gautr var heima. Matgerðarmenn Gauts þraut eldivið ok sögðu Gaut. Hann gengr til tjalz Þorgeirs ok tekr spjót hans ok höggr af skapti — kastar spjótinu í húðfat hans; hann tók ok skjöld Þorgeirs, ok klýfr sundr skjöldinn ok spjótskaptið ok eldir undir katlinum, ok varð þá vel matbúið. Þorgeirr kom heim um kveldit, ok saknar spjóts síns ok skjaldar. Hann spyrr, hverr tekit hefir. Gautr segir, at hann klauf hvártveggja undir ketil „várn, er ekki mátti áðr matbúa, er engi var eldiviðr; en ors þótti illt at eta rátt". Þorgeirr svarar: „Nauðsyn var þat at matbúa yðr; því at hráæti eru fyriboðin hèr í landslögum, ok minn herra Ólafr konungr fyribýðr öllum sínum mönnum at eta hrátt". Engi maðr fann, at Þorgeiri mislíkaði þetta. Annan dag fór Gautr ok hans kumpánar at eldiviði. En svenar Þorgeirs sögðu honum, at þá vantaði við. Þorgeirr tók þá skjöld Gauts ok spjót, ok hjó undir ketil. Gautr kom heim, ok sèr spjót sitt liggja skaptlaust í húðfati sínu; hann saknar ok skjaldar síns. Hann spyrr, hverr tekit hefir. Þorgeirr svarar: „Þat klauf ek undir ketil í dag; því at sveinum varð eldiviðar-skortr". Gautr mælti: „Seint lèttir þú af at auka úsœmdir við ors frændr". Þorgeirr svarar: „Svá er leikr hverr sem byrjaðr er". Gautr hjó þá til Þorgeirs. En hann lýstr við exi sinni við högginu ok bar af sèr, ok skeindiz þó nokkut á fœte. Lupu þá menn meðal þeira ok hèldu þá Þorgeiri. Hann mælti: „Ekki þurfe þèr mèr at

halda—ekki geri ek að sinni". Voro þeir nú skilðir, ok fór hvárr í sitt tjald, ok fóro síðan at sofa. Ok um nóttina stendr Þorgeirr upp ok tekr exi sína ok gengr í tjald þat er Gautr svaf í ok vekr hann. Gautr sprettr upp ok vildi grípa vápn sín. Þá hjó Þorgeirr í höfuð Gauti ok klýfr hann í herðar niðr ok gekk brott síðan til tjalds síns. Kumpánar Gauts vöknuðu við brestinn, er hann var veginn, ok bjoggu um líkið. Svá segir Þormóðr:

Gaut, veit ek, at sun Sleitu,
snarfengr með lið drengja,
höldr við harðar deildir
björkrafðan nam fjörvi.
Ofgeigum varð eigi
álmþings í gný málma
(opt verðr rík þeim, er rækir,
raun, styr) fullu launað.

Einn dag sá þeir Þorgeirr, at skip sigldi af hafi þangat til hafnar. Þeir köstuðu akkeri ekki mjög ner skipi Þorgeirs. Han fór með * * * * * tíðinda eða hverir formenn væri fyri skipinu. Honum var sagt, at * * * * * er rèð fyri skipinu. Hann spurði, hversu margir menn voro á ski * * * * 40 vígra manna þar á. Þorgeirr sá, at þar var mikill liðsmunr, ef þá greindi * * * * 20 menn. Þá mælti Þorgeirr: „Af því at þat er mælt, at hèr sè hvárirtveggju ekki at fullu * * * þá sýniz mèr, at vèr setim grið vár á millim, sakir varygðar". Þórarinn ofsi hèt annarr stýrimaðr á skipi með Trölla. Ok voro síðan grið sett með þeim. Svá segir Þormóðr:

Gulls rèð Þorgeirr þolla
því næst griða æsta.
Sèr er hann seyðis fjarri
svinngeðr með lið minna.

Öll tekr seggr enn snjalli,
sannleygs, friðar mannum
fljótt, þá er fyrðar nýtan,
fullmæli, rèðu tæla.

Nú voro grið sett meðal þeira. Fór þá Þorgeirr til skips síns: flutti hann þá út allt fè skipverja sinna ok lèt skip sitt liggja * * * all-ner landi—ok voro menn hans jamnan allir á skipi; því at hann trúði eigi til fulls þeim Þorgrími ok Þórarni, þó at grið veri í millim þeira. Þeir Þorgrímr spurðu þá víg Gauts Sleitu sunar—því at Þorgeirr hafði ekki sagt þeim vígit. En er Þórarinn ofsi spurði þat, þá mælti hann við Þorgrím trölla: „Ekki munda ek grið hafa selt Þorgeiri, ef ek hefða vitað víg Gauts vinar míns ok frænda. Vil ek nú vita, ef þú vilt mik til styrkja at hefna hans". Þorgrímr svarar: „Þèr mun ek at þersu fylgja; en torsóttlegr sýniz mèr Þorgeirr, þar sem nú er hann kominn". Þórarinn mælti: „Vèr skulum bera á land dýrgripi vára; ok má, at hans menn fari á land at sjá ok forvitnaz gripina—ok munu vèr þá fyrst drepa ok fætta svá lið þeira". Þeir Þorgrímr ok Þórarinn voro fèlagar, ok höfðu ætlað at fara til Grœnalands, ok báru þeir því ekki fè sitt af skipi. Einn góðan veðrdag báru þeir Þorgrímr á land skrúð ok marga góða gripi. Þann dag fóro þeir Kálfr ok Steinólfr, 12 saman, til lands á báti eftir vatni; ok lupu þegar 3 af mönnum þeira þangat sem varningrinn var, ok voro þeir þegar drepnir. Þeir Þorgrímr ok Þórarinn fara þá með liði sínu at þeim Kálfi ok Steinólfi ok bundu þá, en drápu 6 þeira menn. Helgi selseista drap í fyrstu einn förunaut þeira Þorgríms ok ljóp brott síðan. Menn ljópu eftir honum ok náðu honum ekki; ljóp hann eð öfra um fjöll netr ok daga, þar til er hann kom til alþingis, ok sagði þeim Þorgilsi ok Illuga þau tíðindi er gerðz höfðu

í Raunhöfn þá er hann fór brott. En eftir þau víg, er nú var frá sagt, tóku þeir Þorgrímr kaupskipsbátinn þann er Kálfr hafði haft til lanz. Þorgeirr var út í skipi ok vissi ekki þau tíðindi er á landinu höfðu gerðs — ok fann hann ekki fyrr, en þeir Þorgrímr fluttu kaupskip sitt at skipi hans, með 2 bátum, ok voro allir herklæddir ok leggja borð við borð. Þeir Þorgeirr grípa þá vápn sín ok verjaz vel ok drengilega. En af því at liðsmunr var svá mikill, at meirr var en 4 um einn, þá gengu þeir Þorgrímr upp í skip Þorgeirs. Þorgeirs menn fèllu brátt. Hann hafði ekki fleiri vápn en eina exi: hjó hann með henni bæði stórt ok ákapt; ok var þat lengi, er þeir komu ekki sárum á hann — því at engum þótti girnilig gisting undir exi hans. Ok er hans menn voro fallnir, ljóp hann aftr í stafninn ok varðiz þaðan. Svá kvað Þormóðr:

Stirðr rèð stapn að varða
strengreins togum drengja
(-ítr því at ár var heitinn)
auðstjóri (þrek-) fjórum:
áðr sigreynir sínum
(sár hlutu meðr að hváru)
út við eigi lítinn
erring fèll á knerri.

Kennt hefir fjorr, hvæ, frændum,
fólkbetti skal vetta,
dýrr, þó at drengi veri
dylgjusamt at fylgja.
(Þægs) frá ek Þorgeir eiga
(þau eru orð komin norðan
handar grjóts frá hreyti)
hug þann, er við man brugðið.

Aller mæltu eitt um hans vörn og frœknleik, at engi þóttiz hans jamningja fundið hafa. Hann hjó hart ok tíðum ok voro honum lengi sín högg bœði fyri skjöld ok brynju. Þeim Þorgrími sóttiz seint; því at harðfengra var fyri en þeim kom í hug; ok varð þeim hann dýrkeyptr — því at Þormóðr hefir svá ort, at hann vá þar 13 menn, áðr hann lèt líf sitt; en 2 eru nefndir í Þorgeirsdrápu. Már hæt austmaðr, er fystr kom sári á hann, á hönd Þorgeiri; ok hjó hann þann banahögg. Þórir hèt sá maðr, er lagði spjóti í gegnim hann; en Þorgeirr gekk á spjótið upp at höndum Þóri ok hjó í höfuð honum ok klauf hann í herðar niðr. Svá segir Þormóðr:

Hauks frá ek hræfa lækja
harðræðis þrot bræði
við sviprunna sennu
sverðs aldregi verða.
Már hèt maðr ok Þórir,
málsnjallr er lèt falla
(áðr frágum) þá þaðra
Þorgeirr (lokið eirum).

Olli fjorr, áðr fèlli,
(flugtrauðr hjarar) dauða
(sá var rœkjandi enn ríki
reggs) þrettán seggja.
Þar lèt hjaldr fyri höldum
hinn, er þrek gat vinna,
(mál tjá mín að deilaz
mjúk; vissa ek tal) lúkaz.

Nú er Þórir var fallinn, en spjót stóð í gegnim Þorgeir, þá fèll hann ekki: lupu þeir Þorgrímr ok Þórarinn þá at honum ok unnu á honum báðir. Þá fèll Þorgeirr.

Þórarinn hjó höfuð af honum ok hafði með sèr brott. Þeir skáru upp líkam hans ok vildu sjá hjarta hans, ok var þat eigi meira en valnot ok hart sem sigg ok ekki blóð í. En eftir bardagann skildu þeir Þorgrímr ok Þórarinn fèlag sitt; því at Þórarinn venti sèr mikilla sœmða ok framgangs af sigri þersom er hann þóttiz unnið hafa. Þorgrímr hafði skip ór fèlagi, en Þórarinn lausafè. Sigldi Þorgrímr til Grœnalands. En Þórarinn fekk sèr hesta ok reið norðan með 12. mann. Hann hafði höfuð Þorgeirs við slagálar sèr í belg til ágjætis sigrs síns. Þat var skemmtan þeira um daga, þá er þeir beittu hestum sínum, at þeir tóku höfuð Þorgeirs ok settu upp á þúfur ok lógu at. En er þeir komu í Eyjafjörð, þá áðu þeir skammt frá Stokkalöðu. Þeir tóku þá enn höfuð Þorgeirs, ok settu upp á eina þúfu, sem þeir voro vanir. Þeim sýndiz þá höfuðit svá ógurlegt, at augun rœrðuz ok um snèruz — tungan var úti ok blaðraði. Þeir urðu svá ræddir, at engi þorði ner at koma. Grófu þeir þá gröf með exum sínum ok rundu þar síðan í höfðinu ok báru síðan á torf ok grjót. — Eftir bardagann voro þeir Kálfr ok Steinólfr leystir ór fjötrum, ok lètu þeir jarða líkin með Slèttukörlum. Litlu síðarr kom Illugi til skips, ok fór hann utan þat sama sumar.

5. Þormóðr kolbrúnarkáld undi illa eftir fall Þorgeirs, ok fór þat sama sumar utan, ok Eyjólfr ór Ólafsdal ok Þorgeirr hófleysa fóstbróðir hans, í Grímsárósi. Þeir tóku land norðr á Hálogalandi í Lofót. Þormóðr fór á fund Ólafs konungs ens helga, ok sagði konungi, at hann var svarabróðir Þorgeirs Hávars sonar: sagði hann honum þá alla atburði um fall hans. Konungr mælti: „Velkominn skaltu með oss vera; ok þat vilda ek, ef mèr ynniz líf til, at hefnt yrði Þorgeirs". Þá kvað Þormóðr:

Þarf sá, er þèr skal hvarfa,
þengill, fyri knè lengi,
(svarar þú hóglega hverju,)
hugborð (konungr, orði).
Fáir eru vèr (nè frýju)
frændr (orum þó vændir)
[minnumz meirr á annað
mitt starf] konungdjarfir.

Konungr mælti: „Skemmtan man vera at skáldskap þínum". Litlu síðarr gerðiz Þormóðr hirðmaðr Ólafs konungs. Þat sumar kom skip af Grœnalandi; þat átti sá maðr, er Skúfr hèt, grœnlenzkr maðr, ok var vin konungs ok hirðmaðr hans. Skúfr var með konungi um vetrinn. — Eftir um várið, en Þorgeirr fèll, bjó Þorgils Ara son mál til alþingis um víg Þorgeirs á hönd Þórarni ofsa ok þeim öðrum er at víginu höfðu verið, ok voro gerver þeir útlagir skógarmenn er at víginu voro. En Guðmundr enn ríki ok Þorgils Ara son lètu drepa Þórarin ofsa á mannamóti í Eyjafirði. — Eyjúlfr ok Þorgeir hófleysa fóru þat sumar út til Íslands. Þeir voro lengi úti um sumarið ok komu síð um haustið á Borgarfjörð. Þar skilði þa á um landtöku: vildi Eyjúlfr halda til Straumfjarðar — því at þangat var byrr; en Þorgeirr hófleysa vildi leggja í rètt. En af því at mönnum hafði leiðs í hafinu, þá voro þeir margir, er land vildu hafa. Þeir fóstbrœðr voro svá reiðir, at þeir tóku til vápna: lupu menn þá í millim, ok geymdu þeira svá, at ekki hindraði: sigldu þeir til Straumfjarðar. Ok þegar gekk Þorgeirr á land ok fekk sèr hest ok reið vestr í Garpsdal ok tók sèr vist með þeim brœðrum Kálfi ok Steinúlfi. Eyjúlfr var við skip til þers er þat var upp sett. Síðan fór hann vestr í Ólafsdal, til móðor sinnar, ok var þar um vetrinn. Spákerling sú, er fyrr var frá sagt,

andaðiz þann vetr, nestu nótt fyri pálmsunnudag. Lík hennar flutti Eyjúlfr á skipi til Reykjahóla; því at þá var engi kirkja nerr Ólafsdal. Ok er þeir komu fram með líkinu, þá gerði á frost mikil, svá at lagði fjörðinn svá at ekki var skipfœrt; ok var Eyjúlfr eftir á Reykjahólum fram um páskaviku; en hans menn gengu heim ok lètu eftir skipit. Fimmta dag eftir páskaviku reið Eyjúlfr af Reykjahólum, ok bauð Þorgils honum menn til fylgðar; en Eyjúlfr vildi fara einn saman, ok svá var. Reið hann utan af Reykjanesi ok inn um Berufjörð ok Króxfjörð. En er hann átti skammt til Garpsdals, þá voro þeir úti undir vegg einum Kálfr ok Steinúlfr, ok sá, hvar menn fara utan eftir vellinum vápnaðir: þeir snèru fram fyri húsin eð neðra: þeir kenndu þar Þorgeir Hávars son — ok þeir 8 menn, er fèllu með honum í Raunhöfn: þeir voro allir blóðgir: þeir gengu at á þeiri, er fellr fyri innan bœinn, ok hurfu þar. Við þersa sýn varð þeim svá illt, at þeir ganga inn í skála ok setjaz þar niðr ok fèllu drjúgum í úvit. Önundr hèt nautamaðr í Garpsdal. Hann gengr út ór fjósi, ok sèr, at maðr ríðr utan eftir vellinum, með skjöld ok spjót, hjálm ok sverð. Hann kennir þar Eyjúlf. Önundr gengr í stofu. Þar var ekki manna, utan Þorgeirr hófleysa ok konur nokkorar. Önundr mælti: „Eyjúlfr fóstbróðir þinn reið hèr um garð ok lèt mjök vænlega". En er Þorgeirr heyrði þat, ljóp hann upp ok út ok greip spjót eitt. Hann sèr, at Eyjúlfr er þá kominn á innanverðan völlinn. Hann ljóp þá eftir honum. En Eyjúlfr sá hann ekki fyrr enn hann kom at Garpsdalsá. Þorgeirr kallar þá, at Eyjúlfr bíði hans, ef hann þorir. Eyjúlfr heyrir kallit ok leypr af baki ok leypr móti honum ok leggr hvárr annan í gegnum með spjóti, ok dó þeir báðir þegar í stað. Kom þá þat fram, er kerling hafði spáð. En er af þeim brœðrum leið úmegin þat er á

þá hafði komit af fyriburðinum, þá spyrja þeir, hvar Þorgeirr var. Þeim var sagt, at hann hafði gengit út ok tekit spjót, þá er hann heyrði sagt af ferð Eyjúlfs. Þeir brœðr ganga inn til árinnar, ok voro þeir fóstbrœðr þá nýfallner, en ekki dauðir. Þeir sátu yfir þeim til þers er þeir voro sálaðir, ok fœrðu þeir síðan lík þeira til kirkju.

6. Þá er Þormóðr kolbrúnarskáld hafði verit einn vetr með Ólafi konungi, þá bjó Skúfr Grænlendingr skip sitt til Grænlands. Þormóðr gengr þá fyri konunginn, ok mælti: „Þat vildi ek, minn herra, at þú lofaðir mèr at fara út til Grænlands". Konungrinn spurði: „Hvárt ætlar þú at hefna Þorgeirs svarabróðr þíns?" Þormóðr mælti: „Ekki veit ek, hvers auðit má verða um þat". Konungr mælti: „Ekki mun ek banna þèr förina; því at ek veit, hvat þú vill". Tekr Þormóðr sèr þá fari með Skúf. Ok er þeir eru mjök búnir, þá fara þeir á fund konungs ok þakka honum alla vingan þá er hann hafði þeim veitt. Konungr bað þeim vel faraz. Konungr gaf Þormóði sverð ok gullhring, er þeir skildu. Ganga þeir Skúfr á skip út. Ok er þeir voro albúnir, þá gengr maðr út á skipit at bryggjusporðinum. Sá maðr var mikill vexti ok herðibreiðr ok herðiþykkr. Hann hafði síðan hött á höfði: máttu þeir ekki sjá í anlitit á honum: enn þat er þeir máttu af sjá, þá sýndiz þeim hann skolbrúnn ok skeggjaðr ok grepligr í ásjóno. Sá maðr kvaddi Skúf. Skúfr tók vel kveðju hans, ok spurði hann at nafni. Hann kveðs Gestr heita. Skúfr mælti: „Hvar er kyn þitt?" Gestr svaraði: „Víða stendr kyn mitt fótum. Enn þat er eyrindi mitt hingat, at ek vil vita, hvárt þú vill veita mèr far út til Grenlands æða ekki?" Skúfr svaraði: „Ókunnigr maðr ertu mèr; ok mun ek ráðaz um við skipverja mína, hvat þeim sýniz ráð". Gestr mælti: „Þat hugða ek, at stýrimaðr etti fyri skipi at ráða, enn ekki hásetar; ok

er þat líkiligaz, at ek vinna hlutverk mitt, svá at ekki munu hásetar þurfa fyri mik at vinna". Nú lauk svá þeira viðræðu, at Skúfr tók við Gesti. Gengr Gestr upp í beinn, ok kemr aptr litlu síðarr með mikla byrði svá at varla máttu 2 menn valdit fá. Gestr tók sèr rúm aptr á búlkabrún. Hann átti fátt við aðra menn ok lèt fátt til sín taka. Skúfr lèt þegar í haf er byr gaf. Gestr var æ því betri liðsmaðr er meirr þurfti. Svá sýndiz mönnum sem Gestr mundi hafa 2 manna megin æða 3. Heldr skarst allt í odda með þeim Gesti ok Þormóði þat sem við bar. Svá bar at einn dag, at þeir Þormóðr ok Gestr áttu austrmál at halda báðir saman. Í þat mund var byttuaustr á skipum, enn ekki dæluaustr. Nú var Þormóðr niðri í kili ok sökkti byttunum; enn Gestr tók við á þiljunum ok bar út fyri borð. Þormóðr var ekki sterkr maðr ok seldi opt ekki langt upp bytturnar. Gestr ræddi um, at hann skyldi lengra upp selja bytturnar. Þormóðr svaraði öngu, enn gerði rètt sem áðr. Nú er minnstar vánir voro, þá lætr Gestr falla ofan byttuna fulla af sjó í fang Þormóði. Varð hann alvátr ok hleypr upp ór austrinum ok þrífr vápn. Gestr tekr þá ok sín vápn. Vilja þeir þá á berjaz. Skúfr mælti: „Þat er ekki sami, at menn sè úsáttir á kaupskipum í hafi; því at þar fylgir mart til meins: ok sjaldan mun þeim skipum vel faraz, er menn eru ósáttir innanborðs. Nú viljum vèr beiða ykkr, at þit setit grið meðal ykkar, meðan þit erut í hafi á skipi". Nú var svá gert. Skip velkir úti lengi: fá þeir veðr stór. Ok í enum stormi gengr í sundr skiprá þeira: fór þá seglit utanborðs: taka menn seglit ok heimta at sèr innanborðs, ok voro tiltök Gests harðfengligust. Skúfr vissi, at þeir menn voro lítt hagir, er farit höfðu af Grenlandi med honum; enn hann hafði sèt þá Þormóð ok Gest mart hagliga telgja. Skúfr mælti þá við Þormóð: „Vill þú skeyta rá vára saman?"

Þormóðr svaraði: „Ekki em ek hagr. Biðu Gest gera at ránni: hann er svá sterkr, at hann mun stinga mega saman rár-endunum". Skúfr gekk þá til Gests ok bað hann beta rána. Gestr svaraði: „Ekki em ek hagr. Mel þú, at Þormóðr geri at; því at hann er svá orðhagr, at hann mun yrkja saman rár-endana svá at fastir sè. Enn fyri nauðsynja sakir—þá mun ek telgja annan hlutinn rárinnar; enn Þormóðr telgi annan". Nú er fengin sín öx hvárum þeira, ok telgir sinn hlut hvár þeira. Gestr lítr nokkut um öxl til Þormóðar. Þá er hann hafði telgt sinn hlut rárinnar, seðz hann niðr á búlkann; enn Gestr telgir nokkoro lengr þat trè, er hann var at. Ok er lokit var at telgja, þá bar hann saman hlutina, ok þurfti þá af hvárigum hlut at taka. Nú festi Gestr saman rána. Ok eptir þetta festa þeir segl við rá, ok síðan sigla þeir. Síð um haustit tóko þeir Grenland. Skip kom í Eiríxfjörð. Þorkell Leifs son var þá höfðingi yfir Eiríxfirði. Þorkell var mikill höfðingi, ríkr ok vinsæll. Hann var vin mikill ens helga Ólafs konungs. Þorkell kom brátt til skips, þá er þat var landfast orðit, ok keypti at stýrimönnum ok at hásetum þá hluti er hann þurfti at hafa. Skúfr gerði Þorkatli í kunnleika, at hirðmaðr Ólafs konungs var þar á skipi, sá er Þormóðr hèt—sagði, at konungr hafði Þormóð honum til handa sent til trausts ok halz, ef hann þyrfti meira við. Nú af þessum orðum Skúfs fór Þormóðr til vistar í Brattalíð. Skúfr átti bú á Stokkanesi: þat var í Eiríksfirði öðrum meghum en Brattalíð var. Við Skúf bjó sá maðr, er Bjarni hèt, vitr maðr ok vinsæll, gjör at sèr í mörgu, hagr vel. Hann varðveitti bú þeira beggja þá er hann var í förum. Þeir áttu fèlag saman, ok fór vel með þeim. Þormóðr fór til vistar í Brattahlíð. Gestr vistaðiz í Einarsfirði á þeim bæ, er hèt í Vík. Þar bjó sá maðr, er Þorgrímr hèt.

7. Þorgrímr trölli Einars son bjó í Einars firði á Löngunesi. Þorgrímr var goðorðsmaðr, mikill höfðingi, ríkr og fjölmennr, garpr hinn mesti í skaplyndi. Við Þorgrím bjó systir hans, er Þórdís hèt. Hana hafði átta sá maðr, er Hámundr hèt. Synir Þórdísar 4 voro á vist með Þorgrími. Einn þeira hèt Böðvarr; annarr Falgeirr; þriðì Þorkell; fjórði Þórðr. Þeir voro allir garpar miklir ok fráligir menn. Þórunn hèt önnur systir Þorgríms trölla. Hún bjó í Einarsfirði, á þeim bæ, sem heitir á Langanesi. Hún átti sun þann er Ljótr hèt. Hann var mikill maðr vexti. Allir frændr Þorgríms voro miklir hávaðamenn ok újafnaðarfyllir. Sigríðr hèt kona, er bjó á þeim bæ er at Hamri hèt. Sigríðr átti gott bú ok gagnsamt. Sigurðr hèt sun hennar, er at búi var með henni. Sigurðr var fráligr maðr, vinsæll ok lítill hávaðamaðr ok þótti eigi alla vega jafnt. Loðinn hèt verkþrell í Brattahlíð. Hann var verkmaðr góðr. Honum fylgði at lagi kona sú er Sigríðr hèt. Hún var fengin til at vinna Þormóði. Skemma var í Brattahlíð, eigi áföst húsum, er Þorkell svaf í ok setumenn hans — þar brann ljós í skemmunni hverja nótt eptir aðra — enn annat fólk svaf inni. Nú þótti Loðni Sigríðr helzti löngum dveljaz í skemmunni á kveldum: þótti honum hún gá sín minnr enn verit hafði: kom honum þá í hug kviðlingr sá er kveðinn hafði verit um lausungarkonur:

Á hverfanda hveli
voro þeim hjörto sköput,
brigð í brjóst lagit.

Hann reddi um við Sigríði, at hann vill ekki vistir hennar langar í skemmunni á kveldum. Hún svarar honum sem henni var í skapi til. Þat barst at einn aptan, þá er Þorkell ok Þormóðr vildu ganga út til skemmu, ok Sigríðr með þeim—þá tók Loðinn til Sigríðar ok hèlt henni, enn hún

togaz ór höndum honum. Ok er Þormóðr sèr þetta, þá tekr hann í hönd Sigríði ok vill kippa henni ór höndum Loðni; enn þat gengr eigi skjótt. Þorkell sèr á þrætu þeira. Hann mælir við Loðin: „Lát Sigríði fara leiðar sinnar: óskuggasamligt er allt um vistir hennar á kveldunum í skemmunni: mun ek gæta hennar, svá at þèr sè skammlaust, úti þar, ok svá henni; enn þú gæt hennar þess á milli".

8. Þá er at jólum dregr, lætr Þorkell munngát heita; því at hann vill jóladrykkju hafa, ok gera sèr þat til ágætis — því at sjaldan voro drykkjur á Grenlandi. Þorkell bauð þangat vinum sínum at jólum, ok var þar fjölmennt. Skúfr af Stokkanesi ok Bjarni voro þar um jólin. Þaðan var hafðr húsbúnaðr ok ker ok klæði um jólin. Nú drukku menn um jólin með mikilli gleði ok skemmtan. Affaradag jólanna bjogguz menn á brott. Loðinn greiddi mönnum klæði, sverð ok handagervi, er hann hafði varðveitt. Hann setti ok fram skip þeira Skúfs ok Bjarna. Húskallar báru ofan ker ok klæði. Loðinn var í selskinnsstakki ok selskinnsbrókum. Þá kemr Loðinn í stufu við hinn fjórða mann. Þar voro áðr eigi fleiri menn, enn þeir Þormóðr ok Bjarni. Þormóðr lá í bekkinum á framanverðum stokki. Nú er þeir koma í stufuna, þá greip Loðinn í fætr Þormóði ok kippti honum fram á gólfit ok dró hann utar eptir gólfinu. Þá hlæypr Bjarni upp ok grípur um Loðin miðjan, tekr hann upp ok rekr niðr við gólfinu hart og bölvar þeim er Þormóð drógu ok bað þá láta hann lausan; ok þeir gera svá. Nú stendr Þormóðr upp, ok mælti til Bjarna: „Engi tilkváma þykkir oss Íslendingum um slík brögð; því at vær erum opt slíku vanir í skinnleikum". Þeir ganga út ok láta sem ekki hafi í orðit. Nú er þeir Skúfr voro albúnir til ferðar, þá gengr Þorkell til skips með þeim, ok heimamenn hans. Þeir höfðu eina ferju, ok lá ein bryggja á land upp af ferjunni.

Bjarni stóð hjá ferjunni, ok beið Skúfs, er hann hjalaði við Þorkel. Loðinn var uppi skammt frá skipinu ok hafði af henði greitt klæði manna. Þormóðr var þaðan skammt. Ok er minnstar váuer voro, bregðr Þormóðr höggeyxi undan skikkju sinni ok höggr í höfut Loðni svá at hann fèll þegar dauðr til jarðar. Þorkell heyrir brestinn, ok lítur til: sèr, hvar Loðinn var fallinn. Hann mælir þá við sína menn, at þeir gangi ok drepi Þormóð; enn þeim varð bilt. Bjarni mælti, at Þormóðr skyldi ganga út á skip. Hann gerði svà. Bjarni gekk eptir honum, ok svá Skúfr. Ok er þeir komu á skipit, þá heimta þeir bryggjuna út. Þorkell eggjar þá atgöngu, ok vildi berjaz við þá Skúf ok Bjarna, ef þeir vildi ekki Þormóð fram selja. Skúfr mælti þá: „Bráðlitit gerir þú á þetta, Þorkell bóndi, ef þú vill drepa Þormóð, heimamann þinn, enn hirðmann ok skáld Ólafs konungs: mun yðr maðrinn dýrkeyptr verða, ef Ólafr konungr spyrr, at þèr látit drepa hann, allra helzt er hann hafði sent hann þèr til trausts, ef hann þyrfti nokkurs við: sýniz þat í þessu máli sem opt, at reiðin lítr ekki hit sanna. Nú viljum vèr bjóða yðr fèbætr fyri Þormóð um víg þetta ok vansa þann er yðr hefir gjör verit í víginu". Nú af þessum orðum Skúfs — þá sefaz Þorkell. Áttu þá margir hlut í um sættir þeirra. Fór þat ok fram, at Skúfr hannsalaði Þorkatli sjálfdemi fyri víg Loðins. Fór Þormóðr þá til vistar á Stokkanes.

9. Egill hèt húskall þeira Skúfs. Hann var mikill maðr vexti ok sterkr, ljótr yfirliz, úfimr ok úvitr. Hann átti kenningarnafn ok var kallaðr fífl-Egill. Þormóðr var löngum úkátr. Þeir spurðu Þormóð eptir, Bjarni ok Skúfr, ef þeir mætti nokkut bætr ráða á hljóðleikum hans. Þormóðr svaraði: „Þat vilda ek, at þit fengit mèr fylgdarmann þann er mèr fylgði hvert er ek vilda fara". Þeir sögðu svá vera skyldu: báðu hann kjósa þann mann af húskörlum sínum, sem hann

vildi. Þormóðr mælti: „Fífl-Egill — hann er mikill vexti og sterkr — hann kýs ek — ok mun ekki ot hygginn at gera slíkt sem fyri hann er lagt". Þeir kvoðu svá vera skyldu. Menn undruðuz þó, hví hann kaus Egil. Bjarni míðaði Þormóði eyxi breiða at Þormóðar fyrisögn: hún var slegin ofan öll af ok fram til eggjar; eigi var eggvölr fyri henni; helzti var hún bitrlig. Um sumarit eptir þessa atburði fóro menn til þings í Garða í Einarsfjörð. Þeir ór Eiríksfirði höfðu tjaldat búðir sínar; ok var leiti á meðal ok þess er þeir höfðu tjaldat ór Einarsfirði. Nú er menn höfðu flestir tjaldat búðir, þá var Þorgrímr ekki kominn. Litlu síðarr var sèn för hans: hann hafði skrautligt skip ok svá liðskost valzligan ok vel búinn. Svá var ofsi Þorgríms mikill, at menn þorðu varla at mæla við hann. Veiðarferi höfðu þeir Grænlendingar jafnan á skipi sínu. Nú er skip Þorgríms renndi at landi, þá gengu menn til strandar, at sjá skraut þeira ok vápnabúnað. Þormóðr var þar við staddr, ok tók upp selskutil einn, er þeir höfðu á land kastat, ok lítr á. Enn förunautr Þorgríms tekr til skutilsins, ok mælti: „Lumi af skutlinum, maðr!" segir hann; „því at þèr mun til lítils koma, þóttú haldir á; ok þat ætla ek, at þú munir lítit kunna at beita skutlinum". Hann svarar svá: „Úvíst þikki mèr, hvárt þú beitir betr enn ek". „Ifalaust mun þat" sagði hinn. Þá kvað Þormóðr vísu þessa:

Betr lez beita skutli
(baldr hælir því skjaldar:
þollr hleypr hart um hellur
hlunnjós), enn vær, kunna.
Gjör man ek hitt, hvem harri
hugdýrstr skipar fyrstum
(veitti oss, sá er átti,
orms torg) í skjaldborgu.

Þormóðr gengr þá heim til búðar Þorgríms. Hann lætr þá tjalda búð sína með miklum sóma ok búaz um vel. Þat barst at einn góðan veðrdag á þinginu, at allir menn voro gengnir í brott frá búð þeira Skúfs ok Bjarna, nema Þormóðr: hann lá heima í búð ok svaf. Hann hafði breitt á sik feld tvíloðinn, er hann átti: feldrinn var öðru migin svartr, enn öðru migin hvítr. Nú er Þormóðr hafði sofit nokkura stund, þá vaknar hann, ok sèr, at allir menn voro í brottu. Hann undraðiz þat; því at þá var mart manna í búðinni, er hann sofnaði. Ok í því kemr Egill farandi í búðna, ok mælti: „Of fjarri ertu mikilli skemmtan". Þormóðr spurði: „Hvaðan komtu at? eða hvat er nú í leikum til skemmtanar?" Egill svarar: „Ek var at búð Þorgríms Einars sonar, ok þar er nú mestr hluti þingheimsins". Þormóðr spurði: „Hvat er þar til skemmtanar?" Egill mælti: „Þorgrímr segir þar sögu". Þormóðr mælti: „Frá hverjum er saga sú er hann segir?" Egill svarar: „Ekki veit ek gjörla, frá hverjum sagan er; enn hitt veit ek, at hann segir vel frá ok skemmtiliga, ok er stóll settr undir hann úti hjá búðinni, ok sitja menn þar umhverfiss ok hlýða til sögunnar". Þormóðr mælti: „Kunna muntu nokkurn mann at nefna þann sem í er sögunni, allra helzt er þú segir svá mikit frá at!" Egill mælti: „Þorgeirr nokkurr var mikill kappi í sögunni; ok svá virðiz mèr sem hann Þorgrímr mundi verit hafa nokkut við sögna, ok gengit mjök vel framm, sem líkligt er; vilda ek, at þú gengir þangat ok hlýddir til skemmtanar". „Vera má þat" sagði Þormóðr. Ríss hann nú upp ok tekr ifir sik feld sinn ok snýr út hinu svarta á feldinum. Hann tekr öxi sína í hönd sèr ok setr hött á höfut sèr — gengr til búðar Þorgríms, ok Egill með honum: nema þeir stað undir búðarvegginum ok hlýðaz þaðan um, ok mátti þaðan ekki gerla heyra þat er sagt var. Veðr hafði æ verit bjart ok sólskin mikit;

enn er Þormóðr var kominn undir búðna, þá tók veðrit at þykkna. Þormóðr gerði ýmist, at hann horfði í himininn upp eða niðr í jörðina fyri sik. Egill mælti: „Hví letr þú þann veg?" Þormóðr svarar: „Þanninn er himinninn í at sjá, ok svá jörðin, sem þá er vábrestir verða". Egill mælti: „Fyri hverju er vant at verða vábrestir?" Þormóðr svarar: „Fyri tíðindum værða vábrestir ávallt. Nú ef svá kann at beraz, at þú heyrir vábrestinn, þá forða þú þèr, sem þú mátt, ok hlaup heim til búðar sem skjótaz ok get þín þar". Nú er þeir hjalaz þetta við, þá gerir á skúr mikla ok mikit vátviðri. Hlaupa menn í brott, hverr til sinnar búðar; því at menn höfðu ekki við vatni búiz. Sumir fóro inn í búð Þorgríms, ok var mikil þröng í búðardurunum. Þorgrímr sat eptir á stólinum, ok beið, ef nokkut ryddiz í búðardurunum. Þormóðr mælti þá við Egil: „Bið þú hèr; enn ek mun ganga fram fyri búðna, ok vita, hvat þar sè til tíðinda. Enn ef þú heyrir vábrestinn, þá hlaup þú heim til búðar sem skjótaz". Nú gengr Þormóðr fram fyri búðina ok þar at sem Þorgrímr sat. Hann mælti: „Hvat sögu var þat er þu sagðir áðan?" Þorgrímr svarar: „Ekki getr þat í fám orðum sagt, stórmerki þeirrar sögu. Æða hvert er nafn þitt?" Hann svarar: „Útryggr heiti ek". „Hvers son ertu" sagði Þorgrímr. „Ek em Tortryggs son". Þá vildi Þorgrímr upp rísa af stólinum. Þormóðr höggr þá í höfut honum ok klýfr hann í herðar niðr, brá síðan exinni undir feld sinn, ok sez undir herðar Þorgrími, ok kallar: „Fari þèr hingat: á er unnit á Þorgrími". Nú snúaz margir þangat ok sjá áverkann. Þeir frètta, hvat hann veit til þess manns er á Þorgrími vann. Þormóðr svarar: „Hèr sá ek hann fyri skemmstu; enn ek hljóp þegar undir herðar Þorgrími, er áverkinn var orðinn; sá ek þá ekki, hvert sá fór, er á hafði unnit. Nú taki hèr nokkurir til ok styði Þorgrím;

enn sumir fari at leita þess sem á honum hefir unnit". Þá settuz þeir undir herðar Þorgrími; enn Þormóðr fór í brott. Hann gengr þá fram með sjónum fyri nes nakkvart: hann snýr þá feldinum ok lèt þá horfa út hit hvíta. Enn er Egill heyrir brestinn, er Þormóðr vann á Þorgrími — hljóp hann þá heim til búðar. Skúfs menn geta at líta, hvar maðr hljóp, ok ætluðu, at sá mundi valda áverkum við Þorgrím. Egill varð stórum hræddr, er hann sá manna för eptir sèr, ok með vápnum. Ok er hann var handtekinn, þá skalf á honum leggr ok liðr sakir hræðslu. Enn þegar er þeir kenndu Egil, þá þóttuz þeir vita, at hann mundi ekki hafa unnit á Þorgrími. Rann hræðsla af honum sem hita af járni. Nú fara þeir í búðirnar ok leita mannsins ok finna ekki. Þeir fara fram til sjóvarins ok fram fyri nesit þat sem fram gekk í sjóinn. Þar meta þeir manni í hvítum feldi ok spyrja hann at nafni. Hann nefndiz Vigfúss. Þeir spurðu, hvert hann ætlaði at fara. Hann svarar: „Æk leita þess manns, er á Þorgrími hefir unnit". Þeir genguz at móti, ok fóro hvárirtveggju hart mjök: skilr nú skjótt með þeim. Þeir Skúfr ok Bjarni sakna Þormóðar, ok þykkir þeim ekki örvænt, at hann muni vera valdr áverkans — því at Skúfr hafði hæyrt í Noregi konungs átekjur um hefnð eptir Þorgeir Hávars son. Nú er af líðr hit mesta hlaupit mannanna, þá tóku þeir Skúfr ok Bjarni bát einn á laun ok lètu í nokkurar vistir. Þeir rèru fram fyri nesit; því at sagt var, at þar hefði sèz maðr í hvítum feldi sá er nefndiz Vigfúss. Enn er þeir koma fyri nesit, þá sá þeir, hvar Þormóðr var. Reyru þeir þá at landi, ok mela, at Þormóðr skuli ganga á skipit út. Hann gerði svá. Þeir spyrja, hvárt hann hefði unnit á Þorgrími. Hann kvað þat satt vera. Þeir spurðu hann tíðinda eða hversu mikill vera mundi áverkinn. Þormóðr kvað þá vísu:

[Örvende trez undir]
(opt finnumz þess minni)
öll er fremð of fallin
[fjörnepps í strá] greppi,
ef hreggboða höggit
hefi vart í skör svarta
nadda borðs: því at nirði
nættings bana vættag.

„Vera má" segir Þormóðr, „at ekki hafi mikit orðit höggit; því at örvendr maðr hjó. Enn því hjó ek ekki fleiri, at ek hugða, at þetta skyldi at fullu vinna". Skúfr mælti þá: „Gæfu hafðir þú á, er þeir kenndu þik ekki, er þú saz undir höfði honum Þorgrími æða þá er þeir fundu þig uppi á nesinu". Þá kvað Þormóðr vísu:

Undr er, hví ekki kenndu
elbörvar mik gjörva
stáls (hefi ek mark) á máli
(mart), ok skopt hit svarta.
Burgumz, langs því at lengra
líf var tý skapat drífu
þremja svells, enn þolli
þeim aldrtili seima.

„Auðkenndr maðr em ek" segir Þormóðr: „svartr maðr ok hrokkinhærðr ok málhaltr; enn ek var ekki í því sinni feigr; ok má vera, at ek hafa til nokkurs undan rekit ok lúti enn fyrri í gras nokkurir frændr Þorgríms enn ek". Bjarni mælti þá: „Þú munt nú vera láta svá búit um hefndir eptir Þorgeir, ok hefir þú þó leyst þínar hendr". Þá kvað Þormóðr vísu:

Matka ek hefnð [enn hrafni]
(hrings) [fékk ek bráð] (á þingi

baldrs lèt ek vígi valdit
varga setrs) við marga.
Gnýþolli lèt ek gjalla;
gjort hefi ek fyri mik svartan.
Meirr hefni þó þeirra
Þorgeirs vinir fleiri.

„Svá sýniz mèr", segir Bjarni, „sem þú þurfir ekki meira at at gera um hefndina eptir Þorgeir; því at mikit stórvirki hefir þú gert, einn útlendr maðr ok einmani, sem þú ert hèr — drepit þann höfðingja, sem annarr er mestr á öllu Grænlandi — ok ekki sýnt, hvárt þú kemz í brott; því at Þorgrímr á marga frændr þrifliga eptir ok mikla kappsmenn". Nú flytja þeir Þormóð til Einarsfjarðar ok fylgja honum í helli þann er nú er kallaðr Þormóðarhellir. Sá hellir er í sæfarhömrunum öðru megin fjarðarins enn Stokkanes. Hamrar eru upp ok niðr frá hellinum, ok hvárttveggja illt at fara. Þeir Skúfr ok Bjarni mæla þá við Þormóð: „Vertu nú hèr í hellinum; enn við munum koma til móz við þig, þegar lokit er þinginu". Síðan fara þeir brott ok aptr til þingsins. Þormóðar var saknat á þinginu: þikkjaz menn nú vita, at hann mun vegit hafa Þorgrím. Böðvarr ok Falgeirr bjoggu mál til á hendr Þormóði, ok varð Þormóðr sekr skógarmaðr um vígit. Nú er lokit var þinginu, fór hverr heim til síns heimiliss. Þeir Skúfr ok Bjarni komo til fundar við Þormóð, ok færðu honum vistir ok þat annat er hann þurfti, ok sögðu honum sekt hans: mæltu, at hann skyldi þar við hafaz í hellinum: sögðu, at hann mundi hvergi frið hafa, ef menn vissi, hvar hann var: sögðuz þeir mundu koma endr ok sinnum til fundar við hann. Fyri helliss dyrunum var grastó mikil, ok máttu nauðuliga þeir menn er ferer voro hlaupa af hamrinum ok í grastóna. Þormóði þótti dauíligt í hellinum;

því at þar var fátt til skemmtanar. Einn góðan veðrdag ræðs Þormóðr brott frá hellinum. Hann klífr upp hamrana ok hafði eyxi sína með sèr. Ok er hann er skammt kominn frá hellinum, þá mætti hann manni á leið. Sá var mikill vexti ok úsinniligr, ljótr ok ekki góðr yfirbragðs. Hann hafði yfir sèr verju saumaða saman af mörgum tötrum: hún var feljótt sem laki ok höttr á upp með slíkri gerð: hún var öll lúsug. Þormóðr spyrr þenna mann at nafni. Hann svarar: „Ek heiti Oddi". Þormóðr spyrr: „Hvat manna ertu Oddi?" Hann svarar: „Ek em einn göngumaðr, fastr á fótum, ok em ek kallaðr lúsa-Oddi — nenningarlauss maðr ok ekki alllyginn — fróðr nakkvat, ok hefi jafnan gott af góðum mönnum. Eða hvat heitir þú?" Þormóðr svarar: „Ek heiti Toráðr". Oddi spurði: „Hvat manna ertu Toráðr?" Hann svarar: „Ek em einn kaupmaðr. Eða hvárt viltu, Oddi, eiga kaup við mik". Oddi svarar: „Ek hefi fátt til kaupa? Æða hverju viltu við mik kaupa?" „Ek vil kaupa at þèr yfirhöfn þá er þú átt". Oddi svarar: „Ekki þarftu at spotta at mèr?" Þormóðr segir: „Ekki er þetta spott: ek man selja þèr kápuna, er ek em í; enn þú skalt gefa mèr við verjuna, er þú ert í, ok fara sendiför mína á Stokkanes ok koma þar í aptan; ok seg þeim Skúf ok Bjarna, at þú hefir hitt mann í dag, er Toráðr nefndiz, ok skipti hann yfirhöfnum við þig. Ekki býð ek þèr fleiri eyrindi. Skaltu þá eignaz kápuna, ef þú kemr þessu eyrindi fram". Oddi svarar: „Ekki er auðveldligt at komaz yfir fjörðinn — þar þarf skip at hafa; enn þó má vera, at ek koma þessu til leiðar, ef ek vil, at koma á Stokkanes í kveld". Nú skipta þeir skikkjunum: tekr Oddi við blári kápu, enn fer Toráði verjuna, ok ferr hann í. Þá fór Þormóðr til Einarsfjarðar þar til er hann hittir smalamann Þórdísar á Lönguoesi. Hann spurði, hvárt synir Þórdísar

veri heima. Smalamaðrinn svarar: „Ekki er Böðvarr heima; enn bræðr hans voro heima í nótt, enn nú eru þeir rónir á fiski". Þormóðr svarar: „Svá má vera". Nú hugði smalamaðr, at hann veri lúsa-Oddi. Nú skiljaz þeir Þormóðr ok smalamaðr: ferr Þormóðr til nausta Þórdísar ok hefz þar við. Ok er kvelda tók, þá sá Þormóðr, at þeir bræðr rèru at landi. Þorkell rèri í hálsi, Þórðr í miðju skipi, Falgeirr í austrúmi. Nú er skipit rennir at landi, þá stendr Þorkell upp ok fór fram í stafninn ok etlaði at taka við skipinu. Þormóðr gengr þá út ór naustinu, ok þikkjaz þeir þar kenna lúsa-Odda. Þá snarar Þormóðr at Þorkatli ok höggr báðum höndum í höfut Þorkatli ok klýfr hausinn: fekk hann þegar bana. Þá snýr Þormóðr í brott ok steypir af sèr verjunni. Þórðr ok Falgeirr hlaupa eptir honum. Hann tekr undan fast, ok fram á sjóvarhamrana yfir hellinn, ok hleypr Þormóðr fyr ofan í tóna þá er fyri hellissdurunum var. Ok er hann kom niðr, þá hleypr Þórðr eptir honum, ok lyknar í knèssbótum, er hann kom niðr í tóna, ok lýtr áfram. Þá hjó Þormóðr meðal herða honum svá at eyxin sökk at skapti; ok fyrr enn hann geti eyxina ór tekit sárinu, þá hljóp Falgeirr ofan í tóna ok hjó þegar til Þormóðar. Þat högg kom meðal herða Þormóði, ok varð þat mikit sár. Þá rann Þormóðr undir hendr Falgeiri; því at hann var vápnlauss. Þormóðr finnr þat, at hann verðr aflvani fyr Falgeiri: þikkiz hann þá vera miðlung staddr, slyppr maðr ok sárr mjök: rennir þá hugnum þangat er var Ólafr konungr, ok vætti hans hamingju, at honum mundi duga: fellr þá eyxin ór hendi Falgeiri niðr fyr hamrana ofan á sjóinn: þikkir honum þá nokkuru vænna, er hvártveggi var slyppr; ok því næst falla þeir báðir fyri hamrana ofan á sjóinn: reyna þeir þá sundit með sèr ok færaz niðr ýmsir: finnr Þormóðr, at hann mæddiz af miklu

sári ok blóðrás; enn fyri því at Þormóði varð ekki dauði ætlaðr, þá slitnaði bróklindi Falgeirs: rak Þormóðr þá ofan um hann brækrnar. Falgeiri dapraz þá sundit: ferr hann þá í kaf at öðru hverju ok drekkr nú úmælt: skýtr þá upp þjónum ok herðunum; ok við andlátit, skaut upp anlitinu: var þá opinn muðrinn ok augun, ok var þá því líkaz at sjá í anlitit, sem þá er maðr glottir at nokkverju. Svá lýkr með þeim, at Falgeirr drukknar þar. Þormóðr var þá mjök farinn. Hann lagðiz þá í eitt sker ok skreið þar upp á grjótit ok lá þar, ok vætti þá einskiss annars, enn hann mundi þar líf láta; því at hann var mjök móðr ok sárr, enn langt til lands. — Nú er at segja frá lúsa-Odda. Hann fór sem mælt var með þeim Þormóði, ok segir þeim Skúf og Bjarna, at hann hafði fundit mann á leið sinni of daginn, þann er Toráðr nefndiz, ok skipti við hann yfirhöfnum, ok mælti, at hann skyldi fara á Stokkanes ok segja þeim Skúf ok Bjarna fund þeirra ok klæðakaup. Þeir kenna kápuna, ok þikkjaz vita, at Þormóðr mun því sent hafa lúsa-Odda til fundar við þá, at hann mun ætlaz fyri nokkut stórvirki at gera. Þeir tóko þá einn bát á laun um kveldit ok róa um nóttina yfir fjörðinn. Ok er þeir nálgaz hellinum, þá sjá þeir kvikt nakkvat í einu skeri, ok ræða um, hvart þat mun vera selr eða annat: róa nú at skerinu: ganga upp á skerit: sjá þar mann liggja, ok kenna, at þar er Þormóðr: spyrja hann tíðinda; enn hann segir þau tíðindi, sem gerðz höfðu um nóttina. Skúfr mælti: „Víst hefir þik ekki til einskiss undan rekit á Garðaþingi, er þú hefir orðit á einu kveldi bani 3 kappa ok kynstórra manna". Þormóðr mælti: „Þat eitt kom mèr í hug, áðr þit komut hingat, at ek munda hèr líf mitt láta í skerinu. Enn nú þikki mèr ekki örvænt, at ek verða græddr; ok má þá enn vera, at ek

hafi undan rekit til nokkurs". Þeir spyrja at um samaneign þeira Falgeirs. Þormóðr kvað þá vísu:

Skopta ek, þá er uppi
(undarligr), á sundi,
(hrókr dó heimskr við klæki)
hans razaklof gandi.
Alla leit ek á ulli
eggveðrs hugar-gleggum
(setti gaurr, ok glotti,)
guðfjón (við mèr sjónir).

Þeir Skúfr ok Bjarni bera Þormóð á skip út í fjórum skautum; því at hann mátti ekki ganga. Þá sekja þeir í hellinn klæði hans ok vist; því at þeim sýndiz hann ekki þar mega vera. Þeir rèro þá inn eptir Eiríksfirði. Gamli hèt maðr, er bjó í Eiríksfjarðarbotni uppi undir jöklunum: hann var fèlítill maðr ok einrænn, veiðimaðr mikill. Gamli var kvángaðr, ok hèt Gríma kona hans: hún var svarkr mikill, ger at sèr um mart, læknir góðr ok nakkvat fornfróð. Ekki voro þar fleiri hjón, en þau 2. Þau komo sjaldan til annarra manna, ok sjaldan komo menn til þeira. Þeir Skúfr ok Bjarni lendu báti sínum skammt frá byggð Gamla: gengr Skúfr upp til húss; enn Bjarni sitr yfir Þormóði. Skúfi var þar vel fagnat ok boðinn greiði. „Sáran mann höfum vèr með at fara, er ek vildi at þèr læknaðit". Gríma segir: „Hverr er sá maðr?" „Skúfr svarar: „Þormóðr, skáld ok hirðmaðr Ólafs konungs, er vorðinn fyri áverkum". „Hverr hefir á honum unnit?" segir hún. Skúfr segir henni tíðindin þau sem gerðz höfðo". „Mikill atburðr er sjá orðinn, ok mikil vandkvæði hefir þessi maðr ráðit sèr, ok mikit er at takaz á hendr skógarmann frenda Þorgríms, ok allra helzt er hann hefir nú unnit svá mikit stórvirki í sekt sinni". Skúfr mælti: „Ek skal fè fyri hann

bæta, eptir því sem vert er, ef þèr eru sakir gefnar of þetta mál, ok hvergi skal þik skaða í um kostnað þann er þú hefir fyr honum". Nú lýkr þeira viðræðu, ok tekr Gríma við Þormóði: er hann þá færðr upp til bæjar, ok fægir Gríma sár hans ok bindr: er honum þegar nokkuru hegra. Skúfr ok Bjarni fara heim á Stokkanes. Þessi tíðindi þótti öllum mönnum mikil vera; ok varð ekki skjótt spurt hit sanna um þetta — því at margir höfðu þat fyri satt í fyrstu, at Þormóðr mundi þar drukknat hafa, þá er lík Falgeirs fannz. Sár Þormóðar höfðuz illa, ok lá hann 12 mánaði í sárum. Þá er einn vetr var liðinn frá þessum atburðum, þá gengr Þormóðr milli stufu ok eldhúss, ok var þó ekki gróit sár hans. Um várit varð sá atburðr, at Þórdís á Löngunesi lèt illa í svefni um nótt, ok ræddu menn um, at hana skyldi vekja. Böðvarr sun hennar mælti: „Láti þèr móðr mína njóta draums síns; því at vera má, at þat nakkvat beri fyri kerlingu, er hún vill vita". Ok er hún ekki vakit. Enn er hún vaknar, hratt hún mæðiliga öndunni. Böðvarr son hennar mælti þá: „Þú lèz illa í svefni, móðir; eða hefir nokkut fyri þik borit?" Þórdís svarar: „Víða hefi ek göndum rennt í nótt; ok em ek nú vís orðin þeira hluta, er ek vissa ekki áðr". Böðvarr mælti: „Hvat er þat?" Þórdís svarar: „Þormóðr sonabani minn, enn bróðrbani þinn, er á lífi, ok er hann á vist með þeim Gamla ok Grímu inn í Eiríksfjarðarbotni. Nú vil ek fara á fund þeira ok taka Þormóð ok launa honum með ljótum dauða þann mikla skaða er hann hefir oss gert. Munu vær koma í Brattahlíð ok biðja Þorkel fara með oss; því at hann mun illa kunna, ef þeim Gamla ok Grímu er gert nokkut til meins — því at Þorkell heldr mjök hendi yfir þeim". Böðvarr kvez búinn til ferðar, þegar vildi. Nú standa þau upp um nóttina ok taka eina skútu er þau áttu

ok stíga þar á skip við 15. mann: róa um nóttina til Eiríxfjarðar. Þá var svá missorum komit, at nótt var farljós, Nú er Þórdís var á leið komin við sínu föruneyti, er þat sagt, at Gríma lætr þessa sömu nótt illa í svefni. Þormóðr mælti, at Gamli skyldi vekja hana. Gamli svarar: „Ekki vill Gríma, at hún sè vökt; því at jafnan verðr hún í svefni þeira hluta vís, er henni þikkir varða". Nú hetta þeir hjalinu; enn Gríma vaknar skjótt. Gamli mælti þá: „Illa lèzt þú í svefni, Gríma! Eða hvat bar fyri þik?" Gríma svarar: „Þat bar fyri mik, at ek veit, at Þórdís af Lögunesi er á leið komin með 15 húskarla sína ok ætlar inn hingat til vár; því at hún er nú vís orðin, af tröllskap sínum, at Þormóðr er hèr á vist með okkr, ok ætlar hún at drepa hann. Nú vil ek, at þú sèr at húsi í dag ok farir ekki at veiðum; því at ekki eru þit of margir, þótt ið sèt 2 fyri, enn 15 menn sæki ykkr heim, allra helzt er Þormóðr er ekki vápnfærr; enn þó nenni ek ekki at senda ykkr á jökla í brott — helldr munu þit heima við hafaz". Nú fór Þórdís um nóttina til þess er hún kom í Brattahlíð. Þorkell fagnar þeim vel ok býðr þeim greiða. Þórdís svarar: „Sá er málavöxtr, at ek ætla at fara á fund þeira Gamla ok Grímu þingmanna þinna; því at ek þikkjumz þess vís orðin, at þar er kominn Þormóðr skógarmaðr várr, er margir menn hyggja at drukknaðr sè. Nú vilda ek, at þú færir með oss — ok halt til þess, at vèr náim lögum af þeim Gamla ok Grímu: veiztu þá gerla, hvat vèr eigumz við, ef þú heyrir ræður várar". Þorkell svarar: „Ólíkligt sýniz mèr vera, at Gríma muni varðveita skógarmann þinn; enn þó mun ek fara, ef þèr villt". Nú eta þau Þórdís þar dagverð. Enn Þorkell sópaz at mönnum; því at hann vildi ekki undir þeim Þórdísi ok Böðvari eiga, ef þau eyrði ekki á eitt sátt. Ok er menn voro mettir, þá stígr Þorkell á skip við 20 menn, ok fara

þá hvárirtveggju við svá búit. Enn Gríma kona Gamla átti stól einn mikinn; enn á brúðum stólsins var skorinn Þór, ok var þat mikit líkneski. Gríma mælti um myrgininn: „Nú vil ek skipa til verka í dag. Stól minn mun ek setja á stufugólf mitt: þar vil ek, Þormóðr, at þú sitìr á, þá er menn koma: vil ek ekki, at þú rísir upp af stólnum, meðan Þórdís er á benum. Nú þó at þèr þikki nokkurar nýlundur í geraz eða þèr sýniz úfriðr at þèr borinn, þá rís þú ekki upp af stólinum; því at ekki mun stoða at hrökkva í hyrningar undan, ef þèr verðr bana auðit. Gamli skal festa upp ketil ok sjóða sel: þú skalt bera sorp á eldinn ok lát verða mikinn reyk í húsunum. Ek mun sitja í durum ok spinna garn ok taka við komendum". Nú er svá gert sem Gríma sagði fyri. Ok er skip þeira Þorkels ok Þórdísar sjáz at landi fara, sez Þormóðr á stólinn. Gamli hafði uppi ketilinn ok bar á sorpit á eldinn: varð mjök reykfast í húsunum; þar fylgdi ok myrkr mikit svá at ekki mátti sjá. Gríma sat á þreskeldi ok spann garn ok kvað nokkut fyri sèr þat er aðrir skildu ekki. Nú renna skip at landi ok ganga menn upp til bæjarins: gengr Þorkell upp. Gríma heilsar honum vel ok bauð honum þar at vera. Þorkell mælti: „Þórdís af Löngunesi er hèr í för, ok hefir hún þat fyri satt, at Þormóðr skógarmaðr hennar sè hèr með þèr: viljum vær, at þú selìr Þormóð fram, ef þú veiz, hvar hann er; því at þèr mun þat ofráð verða, at halda skógarmann fyri þeim Þórdísi ok Böðvari syni hennar". Gríma svarar: „Undarligt sýniz mèr vera, at Þórdís ætlar, at ek muni halda skógarmann fyri svá ríkum mönnum sem þau eru á Löngunesi, þar sem ek sit við annan mann í húsi". „Víst er þat undarligt; enn þó viljum vèr rannsaka herbergi þín". Gríma mælti: „Þess munu þèr kost eiga, at rannsaka bæ minn, þó at þèr hefðit ekki svá mikit fjölmenni. Nú þykki

mèr avallt gott, er þú kemr í mín hús; enn illt mun mèr þikkja geis þeira Einarsfirðinga ok spellvirkni um herbergi mín". Þorkell mælti: „Við Þórdís munum ganga inn 2 ok rannsaka". Nú gera þau svá: fóro þau inn ok rannsökuðu; ok var þat ekki löng dvöl, því at húsin voro einkar lítil: þau luku þá upp stufunni, ok var þar fullt allt af reyk, ok sá þau ekki til tíðinda: rammt var í húsunum af reyk, ok voro þau heldr skemr inni, enn þau mundi, ef reyklaust hefði verit. Nú koma þau út, ok var þá rannsakaðr bœrrinn úti. Þá mælti Þórdís: „Eigi þóttumz ek mega sea gjörla fyri reykinum, hvat í stofunni var títt. Nú manum við fara upp á stofuna, ok taka af skjána, ok láta leggja út reykinn, ok sea þaðan, hvat í stofunni er til tíðenda". Nú fara þau Böðvarr ok Þórdís á stofuna upp ok taka af skjána: leggr þá út reykinn: má þá sea um alla stofuna: geta þá at líta stól Grímu þar er hann stóð á miðju gólfi: þau sá Þór með hamri sínum skorinn á stóls-brúðunum; enn þau sá ekki Þormóð. Fara þau af stufunni ok ganga til duranna. Þá mælti Þórdís: „Eptir er enn nakkvat fyrnsku Grímu, er Þórs líkneski er skorit á stóls-brúðum hennar". Gríma svarar: „Ek kem sjaldan til kirkju at heyra kenningar lærðra manna; því at ek á langt at fara, enn fámennt heima. Nú kemr mèr þá heldr í hug, er ek sè líkneski Þórs af trè gert, þat er ek má brjóta ok brenna þegar ek vil, hversu miklu sá er meiri, er skapat hefir himin ok jörð ok alla hluti sýniliga ok úsýniliga ok öllum hlutum gefr líf ok engi maðr má yfir stíga". Þórdís svarar: „Vera má, at þú hugsir slíkt; enn nakkvat etla ek at vèr mundim nú nauðga þèr meirr til sagna, ef Þorkell væri ekki hèr með sitt fjölmenni — því at svá segir mèr hugr, at þú vitir nakkvat til, hvar Þormóðr er". Gríma svarar: „Nú kemr at því sem mælt er — 'opt verðr villr, er geta skal', ok

hitt annars, at hverjum bergr nakkvat, er eigi er feigr. Enn þèr er nauðsyn þat er heilög gezla er svá yfir þèr, at fjandinn á ekki þig svá heimila til illra hluta, sem þú vildir gert hafa — því at þat er várkunn, at menn geti stundum annars enn er; en þat er engi várkunn, at hann trúi ekki því er satt er, þá er hann reynir sannleikinn". Nú skilja þau at svá mæltu: ferr Þorkell heim í Brattahlíð; Þórdís ferr ok heim. Þeir Skúfr og Bjarni koma á laun til fundar við þau Gamla ok Grímu: fœra þeim þá hluti, er þeim bar nauðsyn til, ok launa þeim mörgu þann kostnað, er þau höfðu fyri Þormóði.

10. Þá er Þormóðr var orðinn heill maðr þess er Falgeirr hafði á honum unnit, þá fluttu þeir Skúfr ok Bjarni Þormóð heim á Stokkanes, ok varðveittu hann þar á laun í einu búri. Þar var Þormóðr 3 vetr. Þann vetr seldu þeir Skúfr ok Bjarni bæinn á Stokkanesi ok aðrar jarðir þer sem þeir áttu ok svá kvikfè, ok etluðu at ráðaz í brott af Grenlandi. Snemmendiss um várit bjoggu þeir skip sitt ok settu fram. Þá fýstiz Þormóðr ór útibúrinu: hann sagðiz eiga eyrindi norðr í fjörðinn. Hann fer sèr þá einn bát. Fífl-Egill rèz til ferðar með honum: sez Egill til ára, enn Þormóðr stýrir. Egill var góðr ræði ok vel synðr. Veðr var bjart ok gott, sólskin ok vindr lítill. Þeir fara inn eptir Einarsfirði. Ok er þeir voro komnir inn í fjörðinn, þá úkyrriz Þormóðr mjök ok róaz um ok hallar skipinu ýmsa vega. Egill mælti: „Hví lætr þú svá heimskliga ok ferr sem ærir menn? eða hvárt vill þú hvelfa undir okkr skipinu?" Þormóðr svarar: „Úvært er mèr". Egill mælti: „Ekki má ek róa fyrir látum þínum; ok er nauðsyn á, at þú látir ekki svá ferliga, at þú hafir okkr á kafi". Enn hvat sem Egill ræðir um þetta, þá lýkr svá, at Þormóðr hvelfir bátinum undir þeim. Kafar Þormóðr undan skipinu; ok þegar eptir

tekr hann annat kaf at öðru til þess er hann kemr á land. Hann hefir eyxi sína með sèr. Egill kemr upp hjá skipinu, ok kemz á kjöl, tekr þar hvíld, ok litaz um, ok hyggr at, ef hann sjái Þormóð nokkut, ok fer ekki sèt hann; rèttir Egill þá bátinn; ok eptir þat sez hann til ára, ok rær út eptir firði ok þar til er hann kemr heim á Stokkanes: segir þeim Skúfi ok Bjarna hit sanna frá sínum ferðum — lèt þat fylgja sögunni, at hann hugði Þormóð dauðan mundu vera. Þeim sýndiz sjá atburðr undarligr, ok þikkjaz ekki svá búit mega hafa at; enn renna nokkut grunum á, hvárt Þormóðr man týndr vera. Nú er at segja frá Þormóði, hvat hann hafðiz at, þá er hann kom á land. Hann vatt fyrst klæði sín ok eptir þat tók hann á sik göngu ok fór til þess er hann kom á Hamar til Sigríðar. Þat var síð dags. Hann barði þar á dyrr, ok gengr út kona ein ok heilsar honum ok snýr inn aptr ok gengr til stufu. Þormóðr gengr eptir henni til stufu ok sez utarliga á úæðra bekk. Sigríðr tók til orða, ok mælti: „Hverr kom þar?" Hann svarar: „Ósvífr heiti ek". Sigríðr mælti: „Svá er hverr sem heitir. Vill Úsífr vera hèr í nótt?" Hann svarar — kvez þat vilja. Um myrgininn kom Sigríðr at máli við hann, ok spurði, hvernveg af stæðiz um ferðir hans. Þormóðr mælti: „Satt var þat, at ek nefndumz Ósvífr í ger". Hún svarar: „Kenna þóttumz ek þik, þó at ek hefði ekki fyrri sèt þig, at þú ert Þormóðr kolbrúnarskáld". Hann svarar: „Ekki gerir at dylja; því at rètt kenndan hefir þú manninn. Enn ek etla at fara á Langanes, til Þórunnar Einars dóttur, ok hitta Ljót son hennar: þau hafa opt ljótliga til mín lagt". Sigríðr mælti: „Þá skal Sigurðr son minn fylgja þèr: lengi hafa þau Ljótr ok Þóronn þung verit til vár". Þormóðr mælti: „Úráðligt sýniz mèr, at Sigurðr fari með mèr; því at þit munut ekki halda mega bústað ykkrum hèr, ef nokkut

skerz í með okkr Ljóti". „Gjarna vil ek láta bústað til þess" sagði Sigríð, „at Ljótr fengi nokkura svívirðing". Nú ferr Sigurðr með Þormóði á Langanes, til Þórunnar. Þeir dræpa þar á dyrr, ok gengr út ein kona ok heilsar þeim. Sigurðr spurði, hvárt Ljótr veri heima. Hún svarar: „Hann er í stufu". Sigurðr mælti: „Biðu hann út koma". Griðkona gengr inn, ok mælti, at Ljótr skyldi út koma. Hann svarar: „Hverr mælti þat?" „Sigurðr af Hamri" segir hún, „ok annarr maðr sá er ek kennda ekki." „Hvern veg var sá maðr sjónum, er þú kenndir ekki?" Hún svarar: „Svartr maðr ok hrokkinhærðr." Ljótr mælti: „Líkan segir þú hann Þormóði sakadólgi vorum." Nú gengr Ljótr fram, ok konur með honum, þær sem þar voro. Ljótr tekr eitt spjót í hönð sèr ok gengr í dyrrin ok kennir Þormóð ok leggr þegar á honum miðjum. Þormóðr laust við laginu eyxinni er hann hafði, ok berr niðr spjótit — kemr lagit í fót honum fyri neðan knè ok verðr þat mikit sár. Ljótr lýtr eptir, er hann lagði til Þormóðar; ok þá höggr Sigurðr meðal herða Ljóti ok særir hann miklu sári. Hann hljóp inn í dyrrnar; enn konur hlaupa fram fyri hann. Snúa þeir þá í brott. Melir Þormóðr, at Sigurðr skyli fara heim á Hamar — „ok seg móðr þinni tíðindin; enn ek mun leita fyri mèr" segir Þormóðr. Nú skiljaz þeir: ferr Sigurðr heim á Hamar ok segir móðr sinni þau tíðindi sem í höfðu gerðz. Sigríð mælti: „Þat er mitt ráð, at þú farir á fund Skúfs ok skorir á hann til viðtöku. Seg honum, at ek vildi selja land mitt ok ráðaz með honum brott af Grenlandi". Nú ferr Sigurðr á fund Skúfs ok berr upp eyrindi sín fyri hann. Skúfr tekr við Sigurði ok selr land Sigríðar ok tekr upp bú hennar ok flytr til skips. Þormóðr bindr sár sitt ok ferr ofan til nausts þess er Þórunn átti: sèr hann, at skip hafði verit dregit fram ór nausti, ok þikkiz

vita, at húskarlar Þórunnar munu vera rónir: gengr Þormóðr þá til sjófar ok gerir sèr rúm í einu þarabrúki: liggr þar um daginn. Ok er aptnaz tók, þá heyrir hann áraglamm: verðr þess varr, at húskallar Þórunnar eru komnir at landi. Þeir mela svá: „Gott veðr mun á myrgin ok munum vèr þá róa — munum ekki brýna upp skipi voru ok láta fljóta hèr í höfninni í nótt". Þeir gera svá: fara heim síðan. Þá var mjök kveldat. Nú er þeir eru heim farnir, þá ríss Þormóðr upp ok ferr þangat sem skipit flaut, leysir festar ok sez til ára, rer á fjörðinn ok stefnir til bearins í Vík. Á því kveldi lagðiz Þórdís niðr, á Löngunesi, til svefns; hún lèt illa í svefni. Ok er hún vaknaði, mælti hún: „Hvar er Böðvarr son minn?" Hann svarar: „Hèr em ek, móðir! Eða hvat vill þú?" Hún svarar: „Ek vil, at vèr róim á fiörðinn; því at þar eru veiðar-efni". Böðvarr svarar: „Hvernveg er veiðar-efni þat?" Þórdís mælti: „Þormóðr skógarmaðr várr er á firðinum einn á skipi, ok skulu vèr fara til fundar við hann." Þá fóro 5 húskallar með Þórdísi. Þau róa á fjörðinn um nóttina. Þormóðr heyrir róðrinn ok manna-málit, ok grunar, at Þórdís sè á för komin með húskörlum sínum: sýniz honum þvígit venni sinn kostr, ef hann verðr fundinn. Hólmr einn lítill var skammt frá Þormóði. Þat var land lágt, ok gengu þar ifyr háflæðar, enn ekki gekk þar sjór yfir at meðals-dögum. Þat varð Þormóði fyri, at hann hvelfði skipinu; enn hann leggz til hólmsins. Þarabrúk var um hólminn allan: grefz Þormóðr niðr milli tveggja steina ok berr á sik ofan þarann. Þau Þórdís fara um nóttina, ok sjá um nóttina sorta nokkurn á sjónum, ok vita ekki, hvat þat er: róa at þangat, ok sjá, at þar holfir skip á sjónum ok eru árar í hömluböndum. Húskarlar Þórdísar mela þá: „Hèr mun Þormóðr hafa róit á stein upp, ok meiri von, at hann sè drukknaðr".

Þórdís segir: „Eigi mun Þormóðr hèr drukknat hafa; heldr mun hann hafa orðit var við för vára, ok mun hann sjálfr hvelft hafa skipinu, ok gert þat til þess at vèr skolim hann etla dauðan. Enn hann mun hafa svimit í hólminn, ok mun hann fólgiz hafa. Nú skolu vèr leggja skipit við hólminn ok leita hèr í hólminum. Nú skulu þèr stanga með spjóz-oddum allan þenna hólma optarr enn eitt sinn". Þeir gerðu sem hún mælti ok fundu hann ekki. Þá sýndiz þeim örvent vera, at þeir fyndi hann. Þórdís mælti: „Þat hygg ek, at hann sè hèr í hólminum, þótt þèr finnit hann ekki. Nú ef Þormóðr má heyra mál mitt, þá svari hann mèr, ef hann hefir heldr manns hug enn merar". Þormóðr heyrði, hvat Þórdís mælti ok vildi svara henni; enn hann mátti ekki mæla — því at honum þótti sem tekit veri fyri munn honum. Nú fara þau Þórdís á brott við svá búit: taka skip þat er hann hafði þangat haft ok hafa þat með sèr. Nú er þau voro brottu, stendr Þormóðr upp ór brúkinu. Hann svimr þá þangat á leið sem honum þótti skemmst til lands. Hann hendir sker þau er á leiðinni voro, ok tók þar hvíldir. Ok er skammt var til meginlands, þá komz Þormóðr á eitt sker, ok var þá orðinn svá, at hann mátti hvergi þaðan komaz. Á þessi nótt dreymði Grím bónda í Vík, at maðr kom at honum, venn ok merkiligr, meðalmaðr vexti, riðvaxinn ok herðimikill. Sá maðr spurði Grím, hvárt hann vekti æða svæfi". Hann svarar: „Ek vaki. Enn hverr ertú?" Draummaðr svaraði: „Ek em Ólafr konungr Haralz son; ok er þat eyrindi mitt hingat, at ek vil, at þú farir eptir Þormóði hirðmanni mínum ok skáldi ok veitir honum björg, svá at hann megi þaðan komaz, sem hann liggr, í einu skeri, skammt frá landi. Nú segi ek þèr þetta til merkja, at þat er satt er fyri þig berr, at sá maðr, útlendr, er verit hefir á vist með þèr í vetr ok Gestr

nefndiz, hann heitir Steinarr ok er kallaðr Helgu-Steinarr; hann er íslenzkr maðr, ok fór því hingat til Grenlands, at hann ætlaði at hefna Þorgeirs Hávars sonar; enn þó at Steinarr sè garpr mikill ok harðfengr, þá mun honum verða lítils af auðit um hefnd eptir Þorgeir, ok mun hans harðreði annarsstaðar meiri fram koma". Nú er Ólafr konungr hafði svá mælt, þá vaknar Grímr. Hann vekr Gest ok bað hann upp standa. Hann gerir svá ok tekr vápn í hönd sèr — gengr út með Grími. Setjaz þeir niðr, ok mælti Grímr: „Hvat segir þú til þess, hvat þú heitir?" Gestr svarar: „Mantu þat, Grímr, hvat ek sagða til þess". Grímr svarar: „Man ek þat víst, hvat þú nefndiz; enn at því spyr ek, hvárt þú heitir svá sem þú nefndiz". Gestr svarar: „Hví ekki?" Grímr mælti: „Því — ef þú heitir Steinarr, ok ert kallaðr Helgu-Steinarr á þínu landi". Gestr mælti: „Hverr sagði þèr, at svá veri?" Grímr svarar: „Ólafr konungr". Gestr mælti: „Hvener fanntu hann Ólaf konung?" Þá svaraði Grímr ok sagði honum drauminn. Hann svarar: „Satt er þat í drauminum, er til mín kemr". Nú fara þeir Steinarr at leita Þormóðar ok finna hann þar sem Ólafr konungr hafði til vísat, færa hann heim í Vík ok varðveita hann þar á laun ok græða hann. Ok er hann var heill maðr orðinn þeira áverka, er Ljótr hafði á honum unnit, þá flytr Steinarr þormóð til skips þeira. Skúfr var þá ekki við skip: rèz Steinarr þá brott ór Vík, ok er þá við skip, ok svá Þormóðr. Skúfi frestaz mjök allt þar til er lokit var þinginu. Böðvarr Þórdísar son gerði sekjan Sigurð Sigríðar son um áverka við Ljót. Eptir þingit var Skúfr albúinn til brottferðar. Ok þann morgin er Skúfr etlaði út at sigla, fóro þeir Þormóðr ok Gestr í óleyfi Skúfs frá skipi á einum báti. Þeir fóro til Einarsfjarðar, ok inn eptir firðinum, fyri bæ Þórunnar. Þar sjá þeir 4 menn á

skipi sitja á fiski. Þeir kenna þar Ljót Þórunnar son. Þeir leggja þegar at Ljóti, ok berjaz: lýkr svá þessum fundi, at Ljótr fellr, ok þeir menn 3, sem með honum voro á skipi. Fara þeir Þormóðr þá aptr til skips, ok var Skúfr þá búinn til siglingar. Stíga þeir þá á skip Þormóðr ok Skúfr. Enn Steinarr sez eptir: ferr hann þá til vistar í Brattahlíð til Þorkels. Skúfr ok Bjarni láta í haf. Þeir fá góða byri: ferst þeim vel — taka Noreg. Ok er þeir voro landfastir, þá skiptu þeir fè sinu: hafði Bjarni skip ór fèlagi þeira, enn Skúfr lausafè. Heldr Bjarni suðr til Danmerkr ok gengr út til Róms ok sekir heim hinn heilaga Pèttr postula ok Pál postula; ok í þeirri för andaz Bjarni. Sigríðr ok Sigurðr son hennar keyptu jarðir í Noregi ok bjoggu þar til dauðadags. Skúfr ok Þormóðr fóro á fund konungs ok voro með honum til dauðadags. Konungrinn var ekki margr til Þormóðar í fystunni. Maðr sá kom til konungs, er Grímr nefndiz: hann var íslenzkr maðr: hann kallaðiz hafa hefnt Þorgeirs Hávars sonar fyrr en Þormóðr. Konungr lagði á hann virðing ok gaf honum gjafir. Enn Þormóðr vissi deild á Grími, at hann var illr maðr ok hafði myrt mann á Íslandi. Þá gengr Þormóðr fyri konung, ok kvað vísu:

Þèr fengut fè fleira
[flim er opt kveðit] Grími,
mèr ok myklu færa,
mæringr, enn þörf væri.
Hann hefir hunds verk unnit
(hvinn gerir slíkt at vinna),
mætr, enn ek mennsku bættag
mína, gramr, ok þína.

Konungr mælti: „Þikkiz þú, Þormóðr, meiri fremd hafa unnit á Grenlandi, enn Grímr á Íslandi?" Þormóðr svaraði:

„Ráðit er þat". Ólafr konungr mælti: „Hvat vanntu til frægðar á Grenlandi?" Þormóðr svaraði:

(Þollr) vá ek Þorgrím trölla
(þar laut harðr til jarðar);
ár rèð ek odda skúrar
ótrauðr Ljóts dauða.
Þar nam ek Þorkel fjörvi;
Þórðr lèt önð, hinn fjórði;
felldr var frægr til moldar
Falgeirr, skörungr þeirra.

Ólafr konungr mælti: „Framarr hefir þú þá gert um vígin á Grenlandi, enn fiskimaðrinn kallar aflausn vera fiskinnar; því at hann kallaz leysa sik, ef hann dregr fisk fyri sik, enn annan fyri skip sitt, 3. fyri öngul, fjórða fyri vað. Nú hefir þú framarr gert. Æða hví drapðu svá marga menn?" Þormóðr svaraði: „Illr þótti mèr jafnaðr þeira vera við mik; því at þeir jöfnuðu mèr til merar — töldu mik svá vera með mönnum, sem meri með hestum". Konungr mælti: „Várkunn var þat, at þèr mislíkaði þeira umreða: hefir þú ok stórt at gert". Þá kvað Þormóðr vísu:

(Els) hefik illan díla
(ekkils), þeim er mik sektu
(geig vann ek gervidraugum),
Grenlendingum brenndan.
Sá munat, sækitívi
sverðels-frömum, verða
hrings á hryggjar tanga
hóggræddr, nema mèr lógi.

„Svá mun vera" segir konungr: „seint mun sá díli gróa, er þú hefir þar brennt". Nú var Þormóðr með Ólafi konúngi í góðri virðingu, ok þótti hinn röskvasti maðr í öllum mannraunum. Þormóðr fór ór landi með Ólafi konungi ok

þolði með honum alla útlegð. Hann fór ok aptr með honum til Noregs; því at honum þótti betra at deyja með honum, en lifa eptir hann. Enn er konungr kom í Þrándheim í dal þann er Veradalr heitir ok hann vissi umsátir Þrenda um sik, þá spurði konungr Þormóð í gamni, ok mælti svá: „Hvert mundi nú vera ráð þitt, ef þú verir höfðingi fyri liði því er vær höfum nú?" Þormóðr kvað þá vísu:

Brennum öll, fyri innan
innin, þau er vær finnum
(land skal herr með hjörvi)
Hverbjörg (fyri gram verja).
Ýs (taki allra húsa
Innþrendir kol sinna)
angr mun kveykt í klungri
(kald), ef ek má valda.

Ólafr konungr mælti: „Vera má, at þat hlýddi, at svá veri gert sem þú melir; en annat ráð munu vèr taka enn brenna land várt sjálfra; enn þó grunum vèr ekki þig um, at þú mundir svá gera sem þú melir". Þann dag, er bardagi var á Stiklastöðum, mælti Ólafr konungr — bað Þormóð skemmta nokkverju. Enn hann kvað Bjarkamál hin fornu. Konungr mælti: „Vel er til kvæðis tekit fyrir sakir þeira hluta, er hèr munu at beraz í dag; ok kalla ek kveðit Húskarlahvat." Þat er sagt, at Þormóðr var heldr úkátr um daginn fyri bardagann. Konungr fann þat, ok mælti: „Hví ertu svá hljóðr, Þormóðr?" Hann svarar: „Því, herra, at mèr þikkir ekki víst vera, at við munim til einnar gistingar í kveld. Nú ef þú heitr mèr því, at við munim til einnar gistingar báðir, þá mun ek glaðr". Ólafr konungr mælti: „Ekki veit ek, hvárt mín ráð megn um þat til leiðar koma; enn

ef ek má nekkverju um ráða, þá muntu þangat fara í kveld sem ek fer". Þá gladdiz Þormóðr ok kvað vísu:

Ála þröngr at eli,
örstiklandi, miklu.
Skyldu ekki skelkner höldar
(skálmöld vex nú) fálma.
Brott komumz vær (en veitum
valtafn frekum hrafni:
vizk eigi þat, vága
viggruðr), eða hèr liggjum.

Konungr svarar: „Svá mun vera, skáld, sem þú segir, at annat tveggja munu þeir menn, er nú eru hèr komnir, komaz brott, æða liggja hèr eptir". Þá kvað Þormóðr vísu:

Yðr mun ek enn, unds öðrum,
allvaldr, náir skaldum
(ner vættir þú þeira?),
þingdjarfr, fyr knè hvarfa.
Ríkr, vil ek með þèr, rækir
randar linns enn svinni,
(stöndum ár á undrum
eybeygs) lifa ok deyja.

Ólafr konungr mælti: „Sighvati skáldi þikkiz þú nú sneiða, ok þarftu þess ekki — því at hann mundi sik nú hèr kjósa, ef hann vissi, hvat hèr veri títt; ok má svá vera, at hann komi oss at mestu gagni". Þormóðr svarar: „Vera má, at svá sè; enn þat hygg ek, at þunnskipat veri þá um merkissstöngina í dag, ef þann veg hefði margir farit". Þat hafa menn at ágetum gert, hversu reyskliga Þormóðr barðiz á Stiklastöðum, þá er Ólafr konungr fèll; því at hann hafði hvárki skjöld nè brynju; hann hjó ávallt 2 höndum með breiðeyxi, ok gekk í gögnum fylkingar, ok þótti öngum gott, þeim er fyri honum urðu, at eiga náttból undir eyxi

hans. Svá er sagt, þá er lokit var bardaganum, at Þormóðr veri ekki sárr. Hann harmaði þat mjök, ok mælti: „Þat etla ek nú, at ekki muna ek til þeirrar gistingar, sem konungr, í kveld; enn verra þikki mèr nú at lifa enn deyja". Ok í því bili er hann mælti þetta, þá fló ör at Þormóði ok kom fyr brjóst honum, ok vissi hann ekki, hvaðan at kom. Því sári varð hann feginn; því at hann þóttiz vita, at þetta sár mun honum at bana verða. Hann gengr til einnar bygghlöðu, þar er margir konungsmenn voro inni sárir. Kona ein vermdi vatn í katli til þess at þvá sár manna. Þormóðr gengr at einum vandbálk ok styz þar við. Konan mælti við Þormóð: „Hvárt ertu konungsmaðr? eða ertu af bónda liði?" Þormóðr kvað vísu:

Á sèr, at vèr vorum
vígreifir með Óleifi
(sár fèkk ek), heldr (at hváru)
hvítings (ok frið lítinn).
Skín á skildi mínum,
skald fèkk hríð til kalda:
nær hafa æski-askar
örvendan mik görvan.

Konan mælti: „Hví lætr þú ekki binda sár þín, ef þú ert nokkut sárr?" Þormóðr svarar: „Þau ein hefi ek sár, at ekki þarf at binda". Konan mælti: „Hverìr gengu bezt fram með konunginum í dag?" Þormóðr svarar:

Haraldr var bitr at berjaz
böðreifr með Óleifi;
þar gekk harðra hjörva
Hringr ok Dagr at þingi.
Rèðuz þeir und rauðar
randir prútt at standa
(fèkk benðiðurr blakkan
110 bjór) döglingar fjórir.

Konan spurði þá enn Þormóð: „Hversu gekk konungrinn fram?" Þormóðr kvað vísu:

Ört var Ólafs hjarta:
óð fram konungr (blóði
rekin bitu stál) á Stikla-
stöðum: kvaddiz lið böðvar.
Elþolla sá ek alla
jálfaðs, nema gram sjálfan
(reyndr varð flestr í fastri
fleindrífu) sèr hlífa.

Margir menn voro í hlöðunni þeir er mjök voro sárir, ok lèt hátt í holsárum, sem náttúra er til sáranna. Nú er Þormóðr hafði kveðit þessar vísur, þá kom maðr einn af bóndaliðinu í hlöðuna inn; ok er hann heyrir, at hátt letr í sárum manna, mælti hann: „Ekki er þó undarligt, at konunginum hafi ekki vel gengit bardaginn við bendr, svá þróttlaust fólk sem þetta er, sem konunginum hefir fylgt; því at mèr þikkir svá mega at kveða, at þeir menn, sem hèr eru inni, þoli varla úæpandi sár sín". Þormóðr svarar: „Sýniz þèr svá sem ekki sè þróttigir þeir menn, sem hèr eru inni?" Hann svarar: „Svá sýniz mèr víst, at hèr sè margir menn þreklausir saman komnir". Þormóðr mælti: „Svá má vera, sá sè hèr nakkvarr maðr í hlöðunni inni, er ekki sè þrekmikill — ok ekki mun þèr sýnaz sár mitt mikit?" Bóndi gengr at Þormóði ok vildi sjá sár hans. Enn Þormóðr sveipar eyxinni til hans ok serir hann miklu sári. Sá kvað við hátt ok stundi fast. Þormóðr mælti þá: „Þat vissa ek, at vera mundi nakkvarr sá maðr inni, er þreklauss mundi vera: er þèr illa saman farit — leitar á þrek annarra manna — því at þú ert þreklauss sjálfr: eru hèr margir menn mjök sárir, ok stynr engi þeira; enn þeim er úsjálfrátt, þótt hátt láti í sárum þeira:

enn þú stynr ok kveinar, þó at þú hafir fengit eitt lítit sár". Nú er Þormóðr mælti þetta, stóð hann við vandbálkinn þann er í bygghlöðunni var. Ok er lokit var ræðu þeira, þá mælti konan, sú er vatnit vermdi, við Þormóð: „Hví ertu svá fölr, maðr, ok litlauss, sem nár? æða hví lætr þú ekki binda sár þín?" Þormóðr kvað vísu:

Emka ek rauðr, en rauðum
ræðr grann kona manni:
járn stendr farst hit forna
fenstigi mèr benja:
Þat veldr mèr, hin mæra
marglóðar nú tróða
draupniss; dýrra vápna
Dagshríðar spor svíða.

Ok er hann hafði þetta mælt, þá dó hann standandi við bálkinn ok fèll til jarðar dauðr. Haraldr Sigurðar son fylldi vísu þá, er Þormóðr hafði kveðit: hann lagði þetta við: ‚svíða' — „Svá mundi hann vilja kveða: ‘Dagshríðar spor ‘svíða'". Nú lauk svá sem sagt var æfi Þormóðar kolbrúnarskálds; ok lýkr hèr frásögn þeiri, er vèr kunnum at segja frá Þormóði, kappa hins helga Ólafs konungs.

§ 4. Medlemmer optages af Samfundsraadet. Det halvaarlige Bidrag er 1 Rbd. Den der undlader at betale, betragtes som udtraadt af Samfundet. Ethvert Medlem erholder uden Betaling et Exemplar af de efter hans Indtrædelse udgivne Skrifter.

§ 5. Naar Samfundet tæller 500 Medlemmer, paaligger det Raadet, at bringe under Forhandling i Samfundet, hvorvidt nye og udførligere Love skulle vedtages. Indtil da skal Raadet paa det aarlige Mode afgive Beretning om det forlobne Aars Virksomhed og aflægge Regnskab.

Samfundet har udgivet:

*I. Hrafnkel Freysgodes Saga*, besørget af K. Gislason og oversat af N. L. Westergaard. Bogladepris 40 Sk.

*II. Droplaugarsona saga*, besørget og ledsaget med en Analyse og Ordsamling af K. Gislason. Bogladepris 1 Rbd. 8 Sk.

*III. Hervarar saga ok Heiðreks konungs*, besørget af N. M. Petersen og oversat af G. Thorarensen. Bogladepris 72 Sk.

*IV. Bjarnar saga Hítdælakappa*, besørget og oversat af H. Friðriksson. Bogladepris 84 Sk.

*V. Vápnfirðinga saga*, þáttr af Þorsteini hvíta, þáttr af Þorsteini stangarhögg, Brandkrossa þáttr, besørget og oversat af G. Thordarson. Bogladepris 76 Sk.

*VI. Sagan af Þórði hreðu*, besørget og oversat af H. Friðriksson. Bogladepriis 72 Sk.

*VII. Lucidarius, en Folkebog fra Middelalderen*, besørget ved C. J. Brandt. Bogladepriis 80 Sk.

*VIII. Tvær Sögur af Gísla Súrssyni*, udgivne ved K. Gislason. Med en Forklaring over Kvadene af Dr. S. Egilsson. Bogladepriis 1 Rbd. 32 Sk.

*IX. Kong Waldemar den andens Jyske Lov*, ved N. M. Petersen. Bogladepriis 84 Sk.

*X. Bandamanna Saga*, ved H. Friðriksson. Bogladepris 60 Sk.

*XI. Grágás*, Islændernes Lovbog i Fristatens Tid, udgivet og oversat af V. Finsen. (Förste Hefte.) Bogladepris 68 Sk.

*XII. Sjurðar kvæði*, ved V. U. Hammershaimb. Bogladepris 1 Rbd. 24 Sk.

*XIII. Valdemars sællandske Lov* ved P. G. Thorsen. Bogladepris 80 Sk.

*XIV. Eriks sællandske Lov* ved P. G. Thorsen. Bogladepris 1 Rbd. 16 Sk.

Under Pressen er:

*Fóstbræðra saga* ved K. Gislason. (Andet Hefte.)

*Grágás*, besorget og oversat af V. Finsen. (Andet Hefte.)

Til Pressen forberedes:

*Grettis saga*, ved G. Magnusson.

*Hávarðar saga Ísfirðings* ved G. Thordarson.

*Udsigt over Nordens gamle Literatur* ved P. G. Thorsen.

*Elucidarius* ved K. Gislason.

*Njáls saga* ved K. Gislason.

*Færöiske Kvæder* ved V. Hammershaimb. (Andet Hefte.)

Tiltrædende Medlemmer kunne erholde alle af Samfundet udgivne (I-XIV) Skrifter for 11 Rbd. Anmældelser om Indtrædelse i Samfundet modtages saavel hos Samfundsraadets Medlemmer: *K. Gislason* (Forbaabningsholm Nr. 3), *A. F. Krieger* (Kronprindsessegade 401 C), *O. Stephensen* (Boldhusgade 222), *P. G. Thorsen* (Kronprindsessegade 408) og *N. L. Westergaard* (Gammelstrand 7), som i den *Gyldendalske Boglade* (Klareboderne 8) og udenfor Kjøbenhavn hos dennes Commissionærer.



